# VERKALÝÐSBLAÐIÐ

ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!

Málgagn Einingarsamtaka kommúnista (marx-leninista)

12.tbl. 4.árg. 4.júlí - 18.júlí 1978 15o kr.



Greinar um niðurstöður kosninganna, og hugsanlega stjórnarmyndun er að finna á bls. 8 og í opnu.

Tékkóslóvakía fyrr og nú, 1. grein á bls. 5.


## Uppsögn hjá prentsmiðjunni Grafík:

# „YFIRBORGANIR ERU UPPGJÖF FYRIR ATVINNUREKENDUM"

## - segir Ómar Harðarson, prentari

Það er opinbert leyndarmál að íslenskir iðnaðarmenn eru yfirborgaðir töluvert umfram þá launataxta sem stéttarfélög þeirra semja um hverju sinni við atvinnurekendur. Á undanförnum árum hefur þróunin orðið sú, að stéttarfélög iðnaðarmanna hafa í reynd hætt allri sjálfstæðri kjarabaráttu en látið einstaka félagsmenn sína um samninga við viðkomandi atvinnurekendur.

Á dögunum kom að máli við fréttaritara Verkalýðsblaðsins Ómar Harðarson, offsetprentari, og sagði sínar farir ekki sléttar. Honum hafði verið sagt upp af atvinnurekanda sínum þar sem ekki tókust með þeim samningar um yfirborgun.

"VELVILD" ATVINNUREKENDA Í STAÐ LAUNABARÁTTU.

Vbl: Ómar, eru yfirborganir hagstæðari verkafólki?

Ómar: Nei, alls ekki. Þær þýða það eitt að samtakamætti verkafólksins er kastað fyrir róða og treyst þess í stað á "velvild" og örlæti atvinnurekenda. Það vita nú allir að gjafmildi þeirra nær ekki niður að pyngjunni. Mér er þó sárast að þessi stefna, að láta hvern einstakan semja fyrir sig, hefur leitt til þess að t.d. stéttarfélagið mitt, Grafíska sveinafélagið, er hætt að vera verkalýðsfélag og er orðið nokkurs konar "fagklúbbur". Ef við lítum á málið í heild þá held ég að megi fullyrða að kaupið hjá okkur offsetprenturum með yfirborgun og sjálfsagt hjá fleiri iðnaðarmönnum er talsvert lægra en það gæti orðið ef samtakamættinum væri beitt.

GEÐÞÓTTAUPPSÖGN

Vbl: Hvernig bar það til að þér var sagt upp?

Ómar: Ég var ráðinn í febrúar í prentsmiðjuna Grafík með það að fororði að ég myndi hækka í kaupi eftir ákv. reynslutíma. Í maí fór ég fram á hærri yfirborgun og gekkst atvinnurekandinn inn á það að nokkru. En að auki fór ég fram á sérstakt álag, en það er eins konar hefð í smiðjunni að maðurinn á þeirri vél sem ég vann við svaraði í símann. Síminn hringir u.þ.b. 1o til 2o sinnum á dag. Atvinnurekandinn neitaði algerlega að ræða hærri yfirborgun en hann af gæsku sinni hafði þegar pínt út úr sér til handa mér. Þá hætti ég einfaldlega að svara í símann - enda ekki lærður til þess! Mánuði seinn var mér sagt að skrapa saman pjönku mínar og hypja mig. Þetta fær maðu ef maður sættir sig ekki við þá

Framhald á bls. 3.



Ómar Harðarson prentari.



Prentsmiðjan Grafík.

## Suður-Líbanon

# Falangistar, verkfæri síonista

**13.júní hurfu síðustu innrásarlið Ísraels brott úr Suður-Líbanon. Þetta er mikið áfall fyrir síonista því þeir eru** ekki vanir að láta af herteknum svæðum - þvert á móti. Innrásin inn í S-Líbanon var mikið bakslag fyrir síonista, bæði hernaðarlega og pólitískt, því stjórn Ísraels á nú við mikil pólitísk vandamál að stríða innan og utanlands. Heimafyrir stefnir allt í stjórnarkreppu, því mikil andstaða er við árásarpólitík Begins.



Palestínskur skæruliði fylgist með, er hermenn úr friðargæslusveitum Sameinuðu þjóðanna koma inn í Suður-Líbanon. Hlutverk friðargæslusveitanna hefur reynst vera, að hindra baráttu palestinskra og líbanskra hersveita gegn árásarliðum síonista, á meðan bandamenn síonista, falangistarnir, fá að athafna sig óáreittir í Suður-Líbanon.

HERTEKNU SVÆÐIN Í HENDUR FALANGISTA.

Síonistar eru ekki alveg af baki dottnir hvað varðar S-Líbanon. Í stað þess að láta herteknu svæðin í hendur gæslusveita Sameinuðu Þjóðannna, hafa þeir látið dyggustu stuðningsmenn sína í Líbanon, hinar fasísku sveitir falangista ("kristnir" hægrimenn) taka stjórn á "1o km öryggissvæði". Forystu-

framhald á bls.6.

## Október-forlagið:

# Söfnunarherferð hafin

Október-forlagið sf, eina marx-lenínska bókaútgáfan á Íslandi, hefur hafið söfnun 3oo þúsund króna til 1.október í því skyni að efla og styrkja forlagið. Jafnframt hefur stjórn forlagsins lagt fram áætlun að útgáfu bóka og ritlinga á yfirstandandi ári. Kennir þar ýmissa grasa, en nánar má fræðast um Október-forlagið, söfnunarherferðina og útgáfuáætlunina í þessu tbl. Verkalýðsblaðsins. Við hvetjum lesendur eindregið til að leggja Október-forlaginu lið!




Sjá opnu

## Allur er varinn góður:

# Býst ASÍ-forystan við öðrum þingkosningum í ár?

"Næsti samningafundur verður í kjörklefanum 25.júní" sögðu ASÍ-foringjar Alþýðubandalags og Alþýðuflokks gleiðgosalegir í síðasta mánuði. Þar áður sögðu þeir að kjaramálin yrðu ráðin í kjörklefanum 28.maí (byggðakosningarnar). Nú er báðum þessum kosningum lokið og sýnilegt að verkalýðsforystan hefur haft erindi sem erfiði: Það tókst að beina óánægju og reiði verkafólks niður í kjörkassana og fá upp úr þeim aftur fleiri þingsæti, fleiri nefndir og fleiri ráð til handa flokksgæðingum krataflokkanna tveggja, Alþýðuflokks og Alþýðubandalags. Þannig hika hin samvöxnu forystulið ASÍ og borgaralegu verkalýðsflokkanna ekki við að hagnýta sér kjarabaráttu verkalýðsins til að lyfta sér í valdastóla arðránsþjóðfélagsins. Fyrir þeim er verkafólkið fyrst og fremst atkvæði á nokkurra ára fresti.

Þrátt fyrir öll stóryrðin og gasprið í verkalýðsforingjunum undanfarnar vikur og mánuði, fyrst og fremst þó Guðmundi J. form. Verkamannasambandsins, hafa bókstaflega allar "aðgerðir" forystunnar verið hrein sýndarmennska. Í reynd hefur ASÍ-forystan lagt blessun sína yfir tvöföld kjaraskerðingarlög og ætlar sér ekki að ganga í fylkingarbroddi verkalýðshreyfingarinnar við að ná aftur öllum þeim milljörðum sem auðvaldið hefur haft af verkafólki með kaupránslöggjöf frá því í febrúar s.l. "Útflutningsbann" er í gildi, en þrátt fyrir það verður varla nokkur maður var við það nema í viðtölum við Guðmund J. í Þjóðviljanum! Efist einhver um þessi orð, þá má fá þau staðfest með því að líta í útflutningsskýrslur Hagstofunnar, en þar kemur fram að í apríl (fyrsta mánuði "útflutningsbanns") var meiri útflutningur en í fyrra á sama tíma.

En þrátt fyrir að kosningar séu afstaðnar, þá þarf ekki að halda að ástandið breytist og að nú fari ASÍ-forystan loksins að "berjast". Nei, pólitískt ástand er þannig um þessar mundir að það getur verið notadrjúgt að halda verka- og launafólki mátulega óánægðu áfram, - en þó gæta þess alltaf að vera með blekkingarstarfsemi um leið (sbr. "útflutningsbannið").

Það gæti nefnilega komið upp sú staða að efnt yrði til þingkosninga að nýju í haust, ef ekki tekst að böggla saman ríkisstjórn með þátttöku "verkalýðsflokkanna". Þá mun aftur koma sér vel að hafa launafólkið óánægt og helst óánægðara!

Staðan í dag er því erfið fyrir verkafólk, en upp úr stendur áhrifarík barátta á einstaka vinnustöðum í Reykjavík, Hafnarfirði, Akureyri og víðar.

Barátta á vinnustöðum er auðvitað það sem koma skal, verkafólki til hagsbóta, en auðvaldinu og handlöngurum þeirra úr ASÍ-forystunni til bölvunar. Hvarvetna verður verkafólk að leggja til grundvallar í kjarabaráttunni að ekki verði samið upp á minna í heildarsamningum eða sérsamningum á vinnustað en kr. 16o þús. fyrir dagvinnu á mánuði. Mikilvægasta pólitíska baráttan er gegn stéttasamvinnustefnu ASÍ-forystunn ar. Verkalýðshreyfingin verður ekki endurreist til baráttu fyrr en tekist hefur að útrýma stéttasamvinnustefnunni.

VERKALÝÐS BLAÐIÐ



# Sumarbúðir

Marx-lenínísku hreyfingin eflist jafnt og þétt. Nýtt merki um það eru sumarbúðir þær, norðan og sunnanlands sem VERKALÝÐSBLAÐIÐ hefur skipulagt í samvinnu við EIK(m-l).

Sumarbúðir sem þessar eru nýlunda í framsækinni og kommúnískri verkalýðshreyfingu hérlendir. Um er að ræða fjölmenn mót kommúnista og framsækinna einstaklinga þar sem pólitískum umræðum, útiveru og menningariðkan er fléttað saman. Sumarbúðirnar eru þannig lifandi kennslustaður í baráttufræðum kommúnismans, staður til þess að kynnast starfsháttum EIK(m-l) og vettvangur þar sem menn fá innsýn í raunverulegt lýðræði og stjórnun.

Að þessu sinni standa sumarbúðirnar í þrjá daga, 5.,6.. og 7. ágúst- um verslunarmannahelgina - nálægt Reykjavík og Akureyri. Auk íþrótta, gönguferða, kvöldvaka o.fl. eru tvö umræðuefni á dagskrá: Framsækið starf í fjöldahreyfingum, einkum verkalýðshreyfingunni, og alþjóðaástandið.

Vönduð barnagæsla verður í búðunum og allt starf miðað við að bæði kommúnistar og þeir sem standa utan kommúnisku samtakanna geti tekið fullan þátt í öllu búðarstarfinu.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ og EIK(m-l) hvetja lesendur blaðsins til að hugleiða þátttöku í sumarbúðunum og minnir á fylgirit VBL. í 11.tbl. þar sem efni og allar upplýsingar er að finna. Félaga EIK(m-l) og stuðningsmenn hvetjum við til þess að afla þátttakenda með því að ræða við ættingja, félaga og vini. Farið verður með rútum, því venjulegir fólksbílar komast ekki á mótssvæðið. Þátttökutilkynningum er veitt móttaka í pósthólf 5186, 1o5 Rvk. og 641, 6oo Akureyri eða í Október-búðinni Óðinsgötu 3o, Rvk.

# 21. ágúst - dagur baráttu

21.ágúst n.k. eru rétt 1o ár liðin síðan hin kapitalísku Sovétríki hernámu Tékkóslóvakíu, í nafni "sósíalismans".

Þessi ógnaraðgerð sannfærði marga um að Sovétríki Leníns, Stalíns og vinnandi alþýðu höfðu skipt um eðli - í stað sósíalisma og alþjóðahyggju ríkir þar ríkiskapitalismi og fasískt stjórnarfar.

Tékkneska þjóðin mátti þola hernám nasista rúmum 3o árum áður, en að þessu sinni gar alþýðan ekki veitt verulegt viðnám, m.a. vegna rangrar stefnu og starfsaðferða Dubceks - hópsins, sem ætlaði aðeins að endurvekja nokkra þætti lýðræðis. Tékkóslóvákía hafði í raun fylgt þróun Sovétríkjanna til kapitalisma og orðið æ háðara þeim.

Í dag hrærist andstaðan við hernámið meðlal Tékka og Slóvaka. Hún spannar allt frá borgaralegum lýðræðissinnum á borð við þá sem standa að Charta ´77 - mannréttindastefnuskránni - og til leynilegra marx-lenínískra hópa. Ber kommúnistum að styðja alla andstöðu við Sovétríkin og leppa þeirra í Tékkóslóvakíu.

**Sl. tvö ár hafa kommúnistar og and- heimsvaldasinnar staðið fyrir mótmælaaðgerðum hérlendis gegn sovéska hernáminu. Í fyrra tókst 21.ágúst-nefndinni, sem EIK(m-l) studdu, ekki að ná samvinnu við Samtök herstöðvaandstæðinga á jafnréttisgrunni þar eð þau neituðu henni. Slík andstaða samræmist ekki hag þorra tékkneskrar og slóvakískrar þjóðar.**

**Nú er enn hafinn undirbúningur að aðgerðum á vegum 21.ágúst-nefndarinnar. Þar er með talið tilboð til Samtaka herstöðvaandstæðinga um samvinnu. Flestir vita að innan samtakanna eru öfl sem hvorki vilja berjast gegn báðum risaveldunum né smíða virkar fjöldafylkingar. Vegna þess er óvíst hvort samstaða náist um eina aðgerð 21.ágúst.**

**EIK(m-l) hvetja félaga sína og stuðningsmenn að taka fullan þátt í störfum 21.ágúst-nefndarinnar og berjast fyrir samvinnu hennar og Samtaka herstöðvaandstæðinga. Fram til 21.ágúst þarf að afla málstaðnum fylgis meðal fjöldans, dreifa dreifiritum, auglýsa aðgerðir, tryggja þátttöku í þeim, taka þátt í fundum 21.ágúst-nefndarinnar og annarri vinnu á hennar vegum.**

**Takmarkið er að gera 21.ágúst að öflugum baráttudegi gegn Sovétríkjum afturhaldsins, gegn báðum risaveldunum og til stuðnings frelsisbaráttu Tékka og Slóvaka.**

**Framkvæmdarnefnd miðstjórnar**

**26.6**

# Sumarbúðaefni

Sú gagnrýni hefur komið fram á sumarbúðaefnið sem fylgdi síðasta blaði, að lesefnið væri allt of mikið, sem ætlast væri til að fólk læsi. Þessi gagnrýni er að hluta til réttmæt. Framsetningin á þessu efni í blaðinu var klaufaleg. Á listanum og formálanum að honum mátti skilja að þetta væri eitthvert skyldulesefni, og þeim sem ekki læsu þetta efni yrði jafnvel allt að því meinaður aðgangur að sumarbúðunum! Þetta er að sjálfsögðu okkur að kenna. Ætlun okkar var alls ekki að gera málið svo flókið. Tilgangur listans yfir lesefni var eingöngu sá að benda fólki á lesefni, sem mjög gagnlegt væri að lesa fyrir sumarbúðirnar. Þetta átti að vera nokkurs konar heimildarskrá. En við viljum engu að síður leggja áherslu á að það er mjög gagnlegt að fólk lesi þetta efni, eða svo mikið af því sem það getur. Aðeins þannig verðum við sem best undirbúin undir sumarbúðirnar og umræðurnar þar. Og það er engin ástæða til að láta fjölda greina, sem bent er á. hræða sig frá því að nota tímann vel. Sumar þessara greina eru mjög stuttar, og flestar þeirra er hægt að lesa mjög hratt yfir og fá úr þeim öll meginatriði. Ef við tökum okkur til og lesum að jafnaði í 15-20 mín. á hverju kvöldi áður en við förum að sofa, verðum við búin að lesa allt það efni sem bent var á, fyrir sumarbúðirnar.

Að þessu sögðu viljum við benda á eina bók enn, sem mundi falla undir efnið um flokkinn og fjöldastarfið. Það er bókin "Hvað ber að gera?" eftir Lenín. Þar eru ýmsir kaflar sem vert er að lesa.

Í þessu tbl. Verkalýðsblaðsins hefst greinaflokkur, sem standa mun a.m.k. fram að sumarbúðum. Yfirskrift þessa flokks er "Stofnun kommúnistaflokks!" og verða í honum ýmsar tilvitnanir í frumkvöðlana, úr greinum sem annaðhvort eru ekki til á íslensku eða eru mjög illfáanlegar.

# Framsókn: Bólar ekki á félagsfundi

Frá fréttaritara Verkalýðsblaðsins í Verkakvennafélaginu Framsókn í Reykjavík:

"Enn þá hefur ekki verið haldinn félagsfundur í Framsókn um kjaramálin, eins og lofað hefur verið frá því í febrúar í vetur. Aðalfundur hefur enn ekki verið boðaður, en nú eru reikningar félagsins í endurskoðun og þegar þeir koma þaðan mun eiga að halda aðalfund. Má vera að það komi forystu félagsins vel að mjög margar félagskonur verða þá trúlegast komnar í sumarfrí. Þá er athyglisvert að áður hefur forystan notað það sem rök fyrir drætti á aðalfundarhaldi að gild félagsskírteini vantaði (fullgild félagsskírteini gilda við atkvæðagreiðslu/inngöngu á aðalfundi, en fullgild verða þau ekki fyrr en félagið hefur fengið yfirlit yfir greiðslu viðkomandi á félagsgjöldum. Er það síðan stimplað inn í skírteinið). Nú hafa engir stimplar sést og allt í einu er það engin hindrun fyrir því að halda aðalfund. En nóg um það.

Skrifstofa Framsóknar er rekin á grundvelli fáfræði skrifstofufólksins um störf formanns og varaformanns, sem einar virðast geta svarað spurningum um túlkunaratriði kjarasamninga. Þórunn Valdimarsdóttir hefur lagt blátt bann við því að skrifstofufólkið svari nokkru sem það er ekki 1oo % viss um. Alltaf er vísað á Þórunni.

Að lokum fáein orð um frystihúsið á Kirkjusandi: Þangað hefur nú verið ráðið mjög margt skólafólk sem þýðir það að alltaf er nægilegt vinnuafl til að vinna í aflahrotum, en síðan er hægt að senda það heim kauplaust þegar um hægist. Það hefur enda gerst nokkrum sinnum.

Kirkjusandur hefur tvisvar fengið undanþágu frá "útflutningsbanni" Verkamannasambandsins, samtals fékkst leyfi til útflutnings á 2o.ooo kössum! "

# Leiðrétting

Í síðasta tbl. Verkalýðsblaðsins eru 2 villur eða missagnir í greinum frá Akureyri. Í fyrsta lagi er í greininni "Aðgerðir í Slippstöðinni" gefið í skyn að yfirvinnustöðvun stórs hluta starfsmanna sem hófst 1. júní hafi haldið áfram mánudaginn 5. júní. Misritaða setningin á að vera svona: "Fáir mættu í laugardagsvinnuna 3. júní, en mánudaginn 5. júní hættu fáir eftir að dagvinnutíma lauk".

Í öðru lagi er villandi frásögn í greininni um Abl-menn: "Þora ekki í kappræður". Ekki er rétt sem skilja má af greininni, að Abl-menn hafi ekki ætlað að svara boði um andmælanda á fund EIK(m-l) um kosningarnar. Samþykkt var þar gerð í stjórn, en svarið ósent þegar við inntum eftir því munnlega. En svarið var alger og órökstudd hundsun á tilboði okkar.

Þessi atriði eru hér með leiðrétt. Innihaldslega eru báðar greinarnar í fullu gildi.

Fréttaritari.

# Sumarbúðirnar:

Leiðrétting: Þátttakendur þurfa ekki að hafa með sér diska/hnífapör o.þ.h. Slíkt verður á staðnum. Gott væri ef fólk tæki með sér vasa-/tjaldljós. Fólk er hvatt til að skila inn þátttökutilkynningu sem fyrst og í síðasta lagi fyrir 20.júlí. Foreldrar eru beðnir um að gefa upp aldur barna.,

Einnig hvetjum við fólk til að hafa með sér menningarefni hvers konar, til að flytja á kvöldvökum sumarbúðanna.

- - - - - - - - - - - - - - - - - - - - - - - - - - - - - - - -

TILKYNNING UM ÞÁTTTÖKU Á SUMSRBÚÐUM VERKALÝÐSBLAÐSINS VERSLUNARMANNAHELGINA 5. - 7. ÁGÚST 1978.

Nafn:...............................................

Heimilisfang:...................................................

Fjöldi fullorðna:........

Fjöldi barna:............ Aldur barna:.........................

(Klippið út)

- - - - - - - - - - - - - - - - - - - - - - - - - - - - - -

Tilkynningin sendist til: (Búðir sunnanlands)
Verkalýðsblaðið, Óðinsgötu 30, pósthólf 5186, Rvk.
(Búðir norðanlands)
Verkalýðsblaðið, pósthólf 541, 602 Akureyri.

# Leigjendasamtökin: Notuð til atkvæðaveiða

Mánudaginn 19. júní s.l. gengust nýstofnuð samtök, Leigjendasamtökin, fyrir almennum fundi í Reykjavík. Var þangað boðið fulltrúum allra flokka sem bjóða fram til Alþingiskosninganna. Í tilkynningu sem samtökin sendu frá sér um fundinn var þess getið að markmiðum samtakanna verði ekki náð nema eftir pólitískum leiðum og með stuðningi stjórnmálamanna og flokka og því hafi þótt viðeigandi nú rétt fyrir kosningar að kanna hug flokkanna til þessara mála.

## KOSNINGABEITA

Í fundarboði þessu er reynt að láta líta svo út að hagsmunir leigjenda séu hafðir að leiðarljósi. - Leigjendur hafi þarna tækifæri til að koma skoðunum sínum og baráttumálum á franfæri við frambjóðendur og geti síðan væntanlega kosið þann sem býður best til að koma málunum í höfn á Alþingi. Þannig verði baráttan leikur einn.

Slíkar blekkingar eru á engan hátt leigjendum í hag. Hins vegar beita metorðagjarnir frambjóðendur þeim í þeim tilgangi að nýta sér samtökin í auglýsingaskyni og til atkvæðaveiða. Þar er fremstur í flokki formaður Sóknar Aðalheiður Bjarnfreðsdóttir, sem hefur að undanförnu notað hvert tækifæri til að láta félagasamtök launafólks fleyta sér inn á þing.

## FJÖLDABARÁTTAN FÆRIR SIGUR

Með því að leggja slíka áherslu á að tengja baráttu leigjenda Alþingiskosningunum er einnig verið að setja þingræðisleiðina í fyrirrúm fyrir fjöldabaráttunni og auka trúna á að sigrar geti unnist eingöngu fyrir tilstuðlan "vinsamlegra" þingmanna eða flokka.

Gegn slíkum falsáróðri verða leigjendur að skera upp herör hvar sem hann kemur fram. Setja verður fram kröfu um að samtök leigjenda verði skipulögð á grundvelli fjöldabaráttu og því algerlega hafnað að treysta á loforð "hagstæðra þingmanna". Alþýðufólk hefur of oft rekið sig á haldleysi þeirrar leiðar.

Vissulega verða lagabreytingar sem varða húsnæðismál eins og t.d. leigulöggjöf og breytingar á skattalöggjöfinni sem eru meðal brýnna hagsmunamála leigjenda að hljóta endanlega samþykkt Alþingis. En slíkt mun þó aðeins ná framað ganga fyrir tilstuðlan virkrar baráttu fjöldans utan þings. Árangurinn mun fyrst og fremst ráðast af styrk fjöldahreyfingar leigjenda en ekki af suðningi einstakra þingmanna eða flokka.

# TIL LESENDA

Eins og lesendur Verkalýðsblaðsins hafa veitt eftirtekt, hefur þessu tölublaði seinkað um viku. Er það vegna sumarfría vinnslumanna blaðsins, og láðist að geta þess í síðasta blaði. Lesendur eru beðnir velvirðingar á þessum mistökum Vænta má, að seinna í sumar muni einnig líða 3 vikur milli blaða af sömu orsökum, en þá mun þess verða getið í blaðinu með fyrirvara.



# Gerum stéttarfélögin að baráttutækjum

## Eimskip:

# Árangursrík kjarabarátta

Á dögunum náðu hafnarverkamenn hjá Eimskip góðum áfanga í kjarabaráttu sinni og sýndu að vanda mikinn baráttuvilja og samstöðu. Guðmundur J. Guðmundsson reyndi að bera klæði á vopnin og gat naumlega forðað forstjórunum frá því að lýst yrði yfir skyndiverkfalli. Þess í stað var gripið til skæruaðgerða og sáu forstjórarnir þann kost vænstan að láta undan á öðrum degi aðgerðanna.

Fyrir 3 árum kom Dagsbrúnarforystan því inn í sérsamninga hafnarverkamanna, að kaffitíminn kl. 15.30 var lagður niður, auk þess sem menn þurftu að mæta fyrr til vinnu við Sundahöfn. Fyrir þetta fengu þeir 8% kauphækkun og önnur 8% að auki, ef þeir fóru á sérstakt námskeið. Reyndar ætluðu Dagsbrúnarforingjarnir að ganga mun lengra og selja morgunkaffitímann einnig fyrir slíkk, en það samningsuppkast felldu hafnarverkamenn með miklum meirihluta. Síðar tókst að keyra áðurnefnd atriði í gegn með naumum meirihluta.

Með kaupránslögunum alræmdu var klipið af þessum 16% af umsömdu kaupi og með kjaraskerðingarlögunum síðari, sem drógu þó dálítið í land með kjaraskerðinguna, fyrst og fremst á dagvinnukaup, átti eftir sem áður að greiða aðeins hálfar verðbætur á 16%. Nokkrir lyftaramenn uppgötvuðu þetta og sneru sér til Dagsbrúnar að fyrra bragði. Þannig komst Guðmundur J. í spilið. Hélt hann fund með stjórn Eimskips og VSÍ, en þeir háu herrar tóku ekki í mál að borga umsamdar prósentur.



### GVENDUR SKAMMAÐIST...

Að morgni föstudags 23. júní var haldinn fundur í kaffistofunni í Faxaskála og þar var kominn Guðmundur J. og sagði tíðindin. Hiti var í mönnum og lagði trúnaðarmaður í véladeild til, að vinna yrði stöðvuð strax og ekki hafin aftur fyrr en gengið hefði verið að kröfunni. Tóku margir verkamenn undir þetta, en Jakinn dró mjög úr þessu og taldi þörf að "ræða málin". Heimtaði hann að gengi (þ.e. vinnuhópar) og deildir útnefndu nokkra menn með sér í nefnd og varð það úr. Að vonum tók það smá stund að finna þessa menn, enda voru menn dreifðir um alla kaffistofu. Greip þá Guðmundur J. tækifærið og fór að skamma mannskapinn eins og óþæga krakka. fyrir "sundurlyndi" (!). Slíkt var auðvitað út í hött, enda andrúmsloftið gott og menn samstilltir. "Þið ætlið ykkur að fara í skyndiverkfall, en getið svo ekki komið ykkur saman um menn í nefnd", sagð'ann í umvöndunartón!

En nefndin varð samt til á örfáum mínútum. Ákvað hún, að menn skyldu taka upp gamla kaffitímann og mætingartímann fyrst um sinn. Var þannig hætt að fara eftir sérkjarasamningunum. Kom það illa við Eimskipforstjórana, því samningurinn var að flestra dómi þeim mjög í hag. Geta menn sér til um, að þeir (forstjórarnir) hafi jafnvel smaið uppkastið og fengið Dagsbrúnarforystunni í hendur.

Á öðrum degi aðgerðanna stóð svo til að hætta kl. 15.30, þar sem Eimskip hafði neitað mönnum um kaffi þá. Er leið að þeim tíma, var skyndilega kallað á fund í gegn um kallkerfi verkstjóranna, og kom þá Jakinn blaðskellandi með sigurfréttirnar. Eimskip hafði neyðst til að fallast á að greiða umsamdar prósentur. En svo kórónaði formaður Verkamannasambandsins sinn hlut með því að biðja menn um að láta tíðindin ekki berast út - þ.e. í blöð! Þannig var óbeint gefið í skyn, að þetta hafi verið ölmusa til hafnarverkamannanna, en ekki að Eimskipforstjórarnir hafi verið neyddir til að standa við gerða kjarasamninga. Með þessu átti einnig að hindra annað launafólk í að draga lærdóma af árangursríkri baráttu hafnarverkamanna. Hegðun Guðmundar J. læðir að manni þeim grunsemdum, að innst inni meti hann hagsmuni atvinnurekenda meira en hagsmuni verkafólksins.

Guðmundur J. lék stórt hlutverk í deilunni og naut sín sem einleikari. Þó var hann í raun aðeins sendiboði milli verkamannanna og Eimskipstjórnar. Baráttuhugur og samstaða verkamannanna var aflið sem færði sigurinn.

Verkafólk og vinnulið! Takið hafnarverkamennina til fyrirmyndar. Í stéttaþjóðfélaginu nást engar kjarabætur með rökræðum og "skynsamlegri" kröfugerð. Það hafa dæmin sannað. Ríkisvaldið og stóratvinnurekendur skilja aðeins hótanir og kröfugerð, sem menn eru tilbúnir að fylgja fast eftir.

Fréttaritarar.

# Sigur í Hafnarfirði

Verkfalli starfsfólks Bæjarútgerðar Hafnarfjarðar lauk með fullum sigri: Meirihluti bæjarstjórnar og útgerðarráð neyddust til þess að láta undan kröfum fólksins og víkja úr starfi verkstjórunum tveimur. Síðan hefur verið unnið í BÚH undir stjórn nýs verkstjóra, en verkafólkið er reynslunni ríkara og mun ekki láta bjóða sér hvað sem er hér eftir! Verkalýðsblaðið sendir verkafólkinu baráttukveðjur. Það hefur sýnt okkur öllum að samstæð vinnustaðabarátta er árangursrík.

Eins og Vbl. hefur áður sagt frá, stafaði ólgan og óánægjan meðal verkafólksins langt í frá eingöngu af röngum starfsaðferðum og ósvífni tveggja manna við verkstjórn. Forsaga málsins er sú, að 31. ágúst fengu nær allir starfsmenn bréf upp á að þeim væri sagt upp. Ætlunin var, skv. ákvörðun útgerðarráðs, að breyta bæði vinnslukerfi og tækjabúnaði hússins. Kaup fengu menn í 1 mánuð af tveimur sem fóru í vinnslustöðvun. Nær engin samráð voru síðan höfð við verkafólk um framkvæmd bónustillögunnar, og sífelldar breytingar og tilfærslur hafa verið í vinnslunni síðan. M.a. var ákvæðum um "refsingar" í bónussamningi raskað, eða a.m.k. boðaðar breytingar á honum.

Af þessu má ljóst vera, að baráttu verkafólksins hjá BÚH lýkur hvergi þótt verkstjórarnir tveir víki - vinnuálag, "hagræðingaraðgerðir" og fl. eru áfram baráttu verðar.

Þá er þáttur verkalýðsforystunnar athyglisverður - eða eins og ein konan sagði: "Hlíf og Framtíðin hafa hvorki latt okkur né hvatt". Verkalýðsfélögin hafa ekki verið brjóstvörn í þessari baráttu, m.a. vegna þess að pólitískir bakhjarlar þeirra skipta útgerðarráði að nokkru á milli sín. Augljós réttindabarátta verkafólksins og almenn samúð neyddi forystulið Hlífar og Framtíðar til að taka þátt í stuðningsstarfinu, svo og félög Alþýðubandalagsins og Alþýðuflokks í Hafnarfirði.

EIK(m-l) og Verkalýðsblaðið sendu verkfallsmönnum stuðningskveðju í upphafi verkfalls og blaðið birti frétt um það á forsíðu. 27 eintök af blaðinu voru seld á starfsmannafundi BÚH í verkfallinu og félagar ræddu við fólkið. Einkennandi var hinn góði baráttuandi meðal fólksins og samstaða alls þorra fólksins.

Enn eru fjárframlög að berast til BÚH-fólksins, enda er þörf fyrir meiri fjárstuðning þrátt fyrir að vinna sé nú hafin. Þegar hafa safnast um 2.8 milljónir, en það er samt aðeins hluti af þeirri upphæð sem verkafólkið tapaði í verkfallinu. En þessi upphæð átti engu að síður stóran þátt í sigrinum. Minnumst því ávallt fjárstuðnings við fólk í baráttu - hann getur skipt sköpum!

Fréttaritari.

## Reykjavíkurborg:

# Kaupránslögin viðurkennd

Er ný borgarstjórn hafði verið kjörin í Reykjavík samþykkti meirihluti hennar að skerða vísitölubætur til þeirra, sem vinna hjá borginni, minna en bráðabirgðalög ríkisstjórnarinnar gefa heimild til. Einnig var samþykkt að aflétta skerðingunni í áföngum þannig að allir starfsmenn fái fullar vísitölubætur í lok ársins. Alþýðubandalagið - forystuflokkur nýja meirihlutans fullyrðir að með þessari samþykkt hafi hann efnt aðalkosningaloforð sitt: "Samningana í gildi"

Ef málið er skoðað nánar sést að því fer fjarri að svo sé. Kaupránslögin tóku gildi 1.mars s.l. og frá þeim tíma hefur umsamið kaup launafólks verið skert gífurlega, af völdum verðbólgunnar. Nýi borgarstjórnarmeirihlutinn hyggst á engan hátt bæta þá skerðingu og er því augljóst að hann samþykkir í verki réttmæti hennar.

### KOSNINGALOFORÐ ALÞÝÐUBANDALAGSINS OG STJÓRNARFLOKKANNA

Aðgerðir meirihluta borgarstjórnar í sambandi við vísitölugreiðslur til borgarstarfsmanna báru óneitanlega keim af því að Alþingiskosningarnar voru í nánd. Í þessu máli kom einnig fram enn einu sinni að það er í raun enginn munur á starfsaðferðum "vinstri" meirihlutans og íhaldsstjórna.

Stjórn Geirs og Ólafs var orðin ljóst hve gífurlega óánægju kjararánslögin sköpuðu meðal kjósenda. Því töldu þeir vænlegast að "milda" þau nokkuð með bráðabirgðalögum. Lagasetningin var fyrst og fremst í því skyni að reyna að halda í atkvæðin sbr. orð Ólafs Jóhannessonar þegar hann gaf út þá yfirlýsingu að fólk hefði ekki verið búið að átta sig á því hvað hún hefði í för með sér og þess vegna hefði fylgið hrunið af stjórnarflokkunum.

Á sama hátt komu verkalýðsforingjar Alþýðubandalagsins sigri hrósandi þegar ákvörðun meirihlutans í Rvk. hafði verið tilkynnt og sögðu: "Sko, þarna sjáið þið, kosningar eru víst kjarabarátta og atkvæði greitt Alþýðubandalaginu skilar tafarlausum árangri, þess vegna eigið þið að kjósa okkur til þings."

### FRJÁLS SAMNINGSRÉTTUR ER GRUNDVALLARKRAFA

Fullur og óskertur samningsréttur verður að teljast til grundvallarlýðréttinda. Ef atvinnurekendur og ríkisvald þeirra skrifa undir samning við verkalýðsfélög og samtök launafólks verður að gera þá kröfu að staðið sé við þann samning en stjórnvöld og bæjarstjórnir geti ekki ráðskaðst með ákvörðun launa verkafólks að vild. Með því að ljá máls á og leggja blessun sína yfir slíkar sárabætur eins og ákvörðun borgarstjórnar er í raun, sýnir verkalýðsforystan að hún metur þessi grundvallarlýðréttindi einskis. Ákvörðunin í Reykjavík hefur þegar dregið dilk á eftir sér. Nú hafa ýmis bæjarfélög gripið þeirri lausn fegins hendi að þurfa ekki að greiða launafólki umsamin laun heldur borga eins og þeir í Reykjavík. Nýlegt dæmi um slíka ákvörðun er t.d. Akrenes. Ennig er verkalýðsforystan nú hætt að tala um að berjast fyrir því að samningarnir verði settir í gildi heldur ætlar hún, eins og t.d. Jón Helgason á Akureyfi að fara fram á að samið verði við félagið á grundvelli ákvörðunar borgarstjórnar Reykjavíkur.

Þannig hefur Alþýðubandalagsforystan gert auðvaldinu eftirleikinn léttari með því að gangast inn á að verkalýðsfélögin séu til viðræðu um og æski eftir skerðingu áður gerðra samninga.

## Samtíningur

184 voru....

atkvæði Fylkingarinnar í alþingiskosningunum. Kostnaður samtakanna við dreifirit, límmiða, plaköt, fundi í Tjarnarbúð og Iðnó, auglýsingar o.fl. hefur eflaust numið hundruðum þúsunda kr. Hvert atkvæði kostaði því fleiri þúsundir.

Býður nokkur betur?

Guðmundur...

Dagsbrúnarforingi var ábúðarmikill í sjónvarpsþætti á dögunum með Davíð Sch. iðnrekendaforingja. Hann sagði með sínum þaulæfðu leikaratilburðum að útflutningsbannið yrði sko áhrifaríkt þegar atvinnurekendur færu að missa markaði erlendis.

Mörgum vikum seinna sagði Guðmundur í viðtali við útvarpið að það hefði verið nauðsynlegt að gefa saltfiskútflytjendum undanþágu svo markaðir töpuðust ekki.

Trúlega hefur Davíð Sch. brosað í kampinn.

# Yfirborganir...

framhald af forsíðu.

brauðmola sem atvinnurekandinn kastar í mann og berst án þess að hafa félagið á bak við sig. Þetta var ein geðþóttauppsögnin enn í safn margra sem atvinnurekendur státa af.

### LÆRIR AF REYNSLUNNI

Vbl: Gastu ekki fengið vinnufélagana í lið með þér?

Ómar: Það er mín skyssa. Ég gekkst í reynd inn á þá pólitík stéttasamvinnumanna í verkalýðshreyfingunni og atvinnurekenda, að hver einstakur semji fyrir sig. Afleiðingin var sú að vinnufélagarnir sáu ekki tilganginn í því sem ég var að gera og áróður atvinnurekandans um að ég væri með "stirðbusahátt" átti greiða leið. Þegar mér var svo sagt upp voru þeir hlutlausir. Ég held að það sé geysilega mikilvægt að ekki aðeins ég heldur allir lesendur Verkalýðsblaðsins og raunar allt vinnandi fólk dragi lærdóma af þessu. Kjarabaráttuna er ekki hægt að heyja á einstaklingsgrunni. Verkafólk getur ekki unnið neitt af atvinnurekendum nema með samtakamættinum - eigin samtakamætti vel að merkja, það þýðir ekki heldur að treysta á einangraða skriffinna í verkalýðsforystunni.

### ENDURREISUM STÉTTARFÉLÖGIN TIL BARÁTTU.

Vbl: Hvað ætlarðu að gera?

Ómar: Úr því að vinnufélagarnir voru hlutlausir, þá verð ég að sætta mig við uppsögnina að þessu sinni. En ég ætla þó ekki að "láta mér þetta að kenningu verða" eins og atvinnurekandinn ætlaðist til. Það sem er mikilvægast og kemur bæði mér og stéttarbræðrum mínum til góða þegar til lengdar lætur er að taka upp baráttuna fyrir því að gera stéttarfélögin að baráttutækjum Innan Grafíska sveinafélagsins verður að mynda andstöðulið gegn uppgjafar - og undansláttarstefnunni sem þar er rekin. Það er hægt að gera félagið að virku baráttutæki! Það sem þarf er samstaða um baráttustefnu.

Hér lauk Ómar máli sínu. Vbl. tekur að fullu undir lokaorð hans og hvetur alla baráttusinna meðal iðnaðarmanna til að taka upp baráttuna fyrir endurreisn stéttarfélaga þeirra til baráttu.

Fréttaritari.

12.tbl. 4.árg. 1978

# Alþingiskosningarnar: Sviptingar innan auðstéttarinnar

Alþingiskosningar eru yfirstaðnar. Hrossakaupin um ríkisstjórn að hefjast. Foringjar borgaralegu flokkanna ýmist gráta eða hlæja – þeim tókst misvel að blekkja "hæstvirta kjósendur". Úr úrslitum Alþingiskosninga má ýmislegt lesa og ýmsu spá.

### KRATAR

**Eitt athyglisverðasta atriði úrslitanna er hin mikla aukning á fylgi Alþýðuflokks. Ástæður þessa sigurs eru vafalaust margþættar, en mestu skiptir þó líklega sú nýja aðferð sem kratar hafa tekið upp undanfarin ár, takmarkalaus auglýsingamennska í amerískum glamurstíl, sýndarbarátta gegn spillingu í auðvaldsþjóðfélaginu samkvæmt Votergeit-uppskriftinni og mikil mannaskipti í forystu og á framboðslistum.** Auk þess átti fólk ekki margra kosta völ ef það vildi sýna óánægju sína, en líkaði ekki falssósíalismi endurskoðunarsinnanna í Alþýðubandalaginu. Stefna krata hefur hins vegar ekkert breyst. Stéttasamvinna þeirra er ómenguð og líklega ófaldari en nokkru sinni fyrr, sbr. "kjarasáttmála" þeirra. Þjónkun þeirra við bandaríska heimsvaldastefnu er algjör.

### ALÞÝÐUBANDALAG

Flokkur endurskoðunarsinna – Alþýðubandalagið – vann nokkuð á frá síðustu Alþingiskosningum, en fékk þó aðeins lítinn hluta þess fylgis sem flúði stjórnarflokkana vegna árása þeirra á kjör alþýðufólks. Ástæða þess að sigurganga Alþýðubandalagsins frá kosningunum í maí hélt ekki áfram, heldur snérist við, er vafalaust fyrst og fremst svik þeirra í borgarstjórn Reykjavíkur við verkafólk í höfuðborginni. Aukningin hjá Alþýðubandalagi – og reyndar Alþýðuflokki líka – skýrist að talsverðu leyti af því að margir sem alls ekki treysta þeim til neinna stórverka, vona að þeirra stjórn verði a.m.k. eitthvað skárri en sú fyrri.

### FRAMSÓKN OG ÍHALD

Afhroð hinna hreinu auðvaldsflokka – Framsóknar og Sjálfstæðisflokks – á ástæður sínar í allri stjórnarstefnunni, þó aðallega kjararáninu. Stjórn þessara flokka vann einokunarauðvaldinu vel. Hún ýtti hinni dýpkandi kreppu auðvaldsins yfir á verkalýð og vinnandi alþýðu og sá um að gróði auðherranna skertist ekki. Fjölmörgu launafólki varð nú í fyrsta sinn ljóst að það á hreint enga samleið með þessum grímulausu tækjum einokunarauðvaldsins. Fólk heldur því miður ennþá að það geti bætt eitthvað úr með því að styðja borgaralegu "verkalýðsflokkana". Um marga fylgismenn Framsóknar gildir það að þeim líkaði illa framistaði flokks síns í "vinstri"-stjórninni, en þó enn verr við slælega framistöðu hans í stjórninni með íhaldinu. Því yfirgáfu þeir flokk sinn. Þetta á kannski einkum við um smærri bændur víðsvegar.

### FRJÁLSLYNDIR

Samtök frjálslyndra og vinstri manna þurrkuðust út af þingi og eru því að öllum líkindum úr sögunni sem borgaralegur þingræðisflokkur. Launafólk gat ekki séð í honum neinn valkost, því að þingmenn hans hafa lítið og fátt gert í alþýðuhag.

### KLOFNINGSBROTIN

Stjórnmálaflokkurinn var ekki það afl sem hann taldi sig. Alþýða fólks sá í gegnum hinar fasísku tilhneigingar í málflutningi hans. "KFÍ/ML" og Fylkingin fengu bæði rothögg á hausinn og ættu nú að hafa vit á að gera sér þá einu baráttuáætlun sem samræmist stefnu þeirra, starfi og stöðu: að sameinast hvort öðru og ganga síðan fylktu liði í raðir annarra íslenskra endurskoðunarsinna, þ.e. í Alþýðubandalagið, sem þeir studdu í borgarstjórnarkosningunum. Þar mun fara vel um þessa skemmdarverkahópa.

### ÞINGRÆÐISSKRÍPALEIKUR

Þingræðisflokkar borgarastéttarinnar reyna allir að telja fólki trú um að öllum málum sé stjórnað frá þinginu, þar séu hin raunverulegu völd. Þeir reyna einnig og tekst því miður allt of vel ennþá – að telja fólki trú um að með því að kjósa á fjögurra ára fresti ráði almenningur því hvernig þessu landi sé stjórnað. Þetta er auðvitað alrangt. Hin raunverulegu völd liggja ekki á Alþingi, því síður í kjörklefum. Þau eru í höndum auðvaldsstéttarinnar, einkum öflugasta hluta hennar, einokunarauðvaldsins. Borgaralegu flokkarnir eru allir tæki þessarar stéttar og verja því í meginatriðum sömu hagsmuni. Ósamkomulag þeirra á því rætur í hagsmunaárekstrum innan auðvaldsins sjálfs. Ríkisvaldið er á sama hátt óhjákvæmilega tæki auðstéttarinnar, svo lengi sem auðstéttin er við völd í þjóðfélaginu.

Eina ráðið sem íslenskur verkalýður hefur til að öðlast völd í þjóðfélaginu, ráða stjórnarfarinu og sjá til þess að stjórnað sé með hagsmuni vinnandi fólks í huga, er að gera sósíalíska byltingu, velta auðstéttinni úr sessi og eyða ríkisvaldi hennar, en byggja annað nýtt, ríkisvald verkalýðsstéttarinnar. Eina stjórnmálaaflið sem fært er um að leiða þá baráttu til sigurs er íslenskur kommúnistaflokkur. EIK(m-l) stefna að því að stofna slíkan flokk fyrir lok næsta árs.

### ÚTLITIÐ

En þótt áhersla sé lögð á




gagnleysi þingsalabaráttu er ekki því að leyna að alþýðu getur skipt nokkru, hvernig þingið er samsett. Andstæðurnar innan borgarastéttarinnar geta verið á þann hátt að alþýðunni komi að gagni. Fjöldabarátta fólks fyrir hagsmunum sínum þrýstir þannig á hina ýmsu hagsmunaöfl innan þingsins. Það er t.d. rétt að notfæra sér í einstökum málum hræðslu þingflokkanna við atkvæðamissi og fylgistap. En slíkur þrýstingur á þingmenn er þó alltaf aukaatriði miðað við nauðsyn fjöldabaráttunnar.

Jákvætt við úrslit þessara kosninga er ósigur hinna opinskáu flokka einokunarauðvaldsins, Sjálfstæðisflokks og Framsóknar. Það sýnir aukna meðvitund fólks um eðli þessara flokka og hlutverk. Það er einnig jákvætt, að Alþýðuflokkur skyldi hafa betur í keppni "verkalýðsflokkanna" tveggja um óánægjuatkvæðin, því að það sýnir að fólk er farið að sjá í gegnum svikastefnu Alþýðubandalagsins í verkalýðshreyfingunni og almennt.

**Sé litið á nokkur meginmál er þó fljótgert að sjá að lítil** von er um stefnubreytingar. Sigurvegarar kosninganna, Alþýðuflokkur og Alþýðubandalag, sýndu það glögglega í borgarstjórn Reykjavíkur að þeir telja það [illegible] skyldu sína að [illegible] því að [illegible] kjarasamn- [illegible] að [illegible] ur að [illegible] styður veru Íslands í NATO og tilvist bandaríska hersins á Íslandi. Enginn [illegible] að vinna [illegible] gang, [illegible] smenn [illegible] úr- [illegible] í að [illegible] sýnt [illegible] á [illegible] ninga- [illegible] baráttu- [illegible] rrar [illegible] ekki skánað [illegible] hafi [illegible] síðar- [illegible] fjögur [illegible] og [illegible] vinnandi fólks. Í þeirri baráttu verða sem flestir að taka þátt. Látum ekki þvættingsáróður "sigurvegaranna" slá okkur glýju í augu! Til baráttu!

# Úrslit Alþingiskosninganna

| | 1974 | 1978 | Breyting |
|---|---|---|---|
| Alþýðuflokkur | 9.1 %<br>5 þm. | 22 %<br>14 þm. | + 12.9 %<br>+ 9 þm. |
| Alþýðubandalag | 18.3 %<br>11 þm. | 22.9 %<br>14 þm. | + 4.6 %<br>+ 3 þm. |
| Framsóknarflokkur | 24.9 %<br>17 þm. | 16.9 %<br>12 þm. | – 8 %<br>– 5 þm. |
| Fylkingin | 0.1754 %<br>(200 atk | 0.1501 %<br>184 atk | – 0.053 %<br>– 16 atk) |
| KSML–"KFÍ/ml" | 0.1061 %<br>(121 atk | 0.1049 %<br>128 atk | – 0.0012 %<br>+ 7 atk) |
| Samtök fr.o.v.m. | 4.6 %<br>2 þm. | 3.3 %<br>0 þm. | – 1.3 %<br>– 2 þm. |
| Sjálfstæðisfl. | 42.7 %<br>25 þm. | 32.3 %<br>20 þm. | – 10.4 %<br>– 5 þm. |
| Aðrir listar | 0.1 %<br>0 þm. | 1.9 %<br>0 þm. | + 1.8 %<br>engin |
| Á kjörskrá | 126.388 | 137.184 | + 10.796 |
| Kosn.þátttaka | 115.575<br>91.4 % | 122.023<br>87.7 % | + 6.448<br>– 3.7 % |
| Auðir seðlar | 1.080<br>0.9 % | 1852<br>1.52 % | + 772<br>+ 0.62 % |
| Ógild atkvæði | 387<br>0.33 % | 292<br>0.24 % | – 95<br>– 0.09 % |

Október

# Söfnunarherferð Október-forlagsins:

# 300 þúsund fyrir 1. október

Október-forlagið, eina bókaforlagið á Íslandi sem gefur út marx-lenínískar bókmenntir og margs kyns alþýðubókmenntir, hefur ákveðið að hleypa af stokkunum söfnunarherferð meðal velunnara marx-lenínísku hreyfingarinnar og forlagsins í því skyni að efla forlagið og styrkja efnahagsgrundvöll þess. Sett hefur verið það markmið að safna kr.300 þúsundum fram til 1. október í haust. Einnig er fyrirhugað að efna til sérstakrar söluherferðar með haustinu, sem verður auglýst síðar, auk þess sem fyrir liggur þe. útgáfuáætlun fyrir forlagið út yfirstandandi ár.

Október-forlagið var stofnað af einstaklingum snemma árs 1975. Það er skipulagslega sjálfstæð stofnun, en styður EIK(m-l), stefnu samtakanna og starf og styður samtökin og framsækna hreyfingu með útgáfu lesefnis. Forlagið fór geyst af stað í upphafi: Gefið var út vandað og dýrt ljóðasafn Ho Chi Minh, fyrrum leiðtoga Víetnams, einnig var fyrri útgáfa "Baráttuleiðar alþýðunnar", stefnuskrár EIK(m-l) gefin út, ýmsir smáritlingar og síðast en ekki síst Rauðliðinn, fræðilegt og menningarlegt tímarit EIK(m-l).

Verkalýðsblaðið hitti að máli talsmann Október-forlagsins og spurðist fyrir um væntanlega söfnunarherferð:

–Við teljum nauðsynlegt að gera átak til að gera forlagið að öflugu uppfræðslutæki fjöldans á Íslandi og herferðin er bara byrjunin á miklu umfangsmeira verki. Í upphafi voru gerðar alvarlegar villur í útgáfustarfinu. Þær lágu í óljósu pólitísku hlutverki og markmiði forlagsins og þar með óraunhæfu útgáfustarfi. Of geyst var farið af stað og útgáfan varð forlaginu og EIK(m-l) fjötur um fót. Þá var farið út í það að draga saman seglin og endurskipuleggja starfið. Nú hafa málin skipast þannig að Október stendur undir sér fjárhagslega frá degi til dags, en skortir hins vegar peninga til aukinnar útgáfu. Við ætlum okkur að standast þær kröfur sem gerðar eru til forlagsins með samþykkt EIK(m-l) um stofnun kommúnistaflokks fyrir lok næsta árs. Hlutverk kommúnísks verkalýðsforlags er enn brýnni þegar haft er í huga að fræðsla alþýðufjöldans í kommúnískum fræðum hefur legið niðri um áratuga skeið.

### HVAÐ ER SVO AÐ FINNA Á ÚTGÁFUÁÆTLUN ÁRSINS ?

– Fyrst skal nefna 4 tbl. af Rauðliðanum, hið fyrsta kemur innan fárra daga. Í næstu tbl. verður m.a. fjallað um almenna kreppu auðvaldsins, um kenninguna um 3 heima, um Stalín og stalínisma o.fl. Þá munum við leggja mjög aukna áherslu á að birta þýðingar á texta eftir frumkvöðla marx-lenínismans um uppbyggingu kommúnistaflokks, um þróun alþjóðamála og stríðshættu. Nú býðst lesendum kostur á því að kaupa Rauðliðann í áskrift. Áskrift fyrir 1978 er 1.500, en stuðningsáskrift kr. 2500. Mikið öryggi og þægindi eru fyrir bæði okkur og lesendur að sem flestir kaupi áskrift og hvet ég alla lesendur til að senda okkur pöntun strax!

Þá munu koma út fjórir bæklingar á árinu. Tveir þeirra eru ritstjórnargreinar úr málgagni Flokks Vinnunnar í Albaníu, "Zeri i Popullit" annars vegar, og úr Dagblaði alþýðunnar í Kína hins vegar. Þar koma fram mismunandi sjónarmið albanskra og kínverskra kommúnista til stéttabaráttunnar í heiminum og stjórnlistar og baráttuaðferðar kommúnista. Þetta er mikilvægt lesefni fyrir íslenska kommúnista og allt áhugafólk um alþjóðamál.

Í þriðja lagið er svo bæklingur með fyrstu drögum að söngbók, jafnvel kemur til greina að gefa drögin út í tvennu lagi. Stefnt er að útgáfu söngbókar með verkalýðs- og baráttusöngvum á næsta ári. Rétt þykir að prófa söngvana sem þar kunna að verða birtir í starfinu fyrst.

Fjórði og síðasti bæklingurinn er svo um sjálfsákvörðunarrétt, um þjóðlega baráttu og afstöðuna til risaveldanna tveggja, Bandaríkjanna og Sovétríkjanna. Hann er ætlaður til eflingar þess samfylkingarstarfs í andheimsvaldabaráttunni sem þegar spírar á Íslandi.



**Húsnæði bókaverslunar Októberforlagsins hefur verið stækkað. (Mynd: Verkalýðsblaðið.)**

Að síðustu vil ég svo geta sérstakrar "jólabókar" sem kemur síðast á árinu. Hana verður hægt að fá keypta á sérstöku áskriftarverði og verður það – svo og nafn og innihald bókarinnar kynnt þegar fullnaðarákvörðun hefur verið tekin um þessa útgáfu.

### HAFA EKKI FÁIR AÐGANG AÐ SÖLUMÖNNUM OKTÓBER?

– Jú, því miður. Sérstaklega vantar okkur umboðsmenn út um landið og jafnvel erlendis. Við skorum á velvildar menn okkar að hafa samband og taka efni í umboðssölu.

Í Reykjavík rekum við verslun að Óðinsgötu 30. Þessa dagana er einmitt verið að vinna að stækkun á henni og margvíslegum endurbótum á húsnæðinu. Síðan stendur til að auka vöruúrvalið, en þegar er það allgott, m.a. allgott úrval bóka, blaða og rita frá Norðurlöndum og víðar og hljómplötur. Allt útgáfuefni Október og EIK(m-l) er auðvitað selt þar einnig og sitthvað fleira á íslensku. M.a. verk frumkvöðla. Að vísu ber að taka skýrt fram að ekki er hægt að treysta á réttmæti þeirra þýðinga sem fyrir liggja, sérstaklega á verkum Maós Tsetungs. Þar gætir oft ónákvæmni og jafnvel er um að ræða rangar þýðingar. Forlagið hlýtur að setja sér það sem markmið að bæta hér úr. En slíkt krefst vinnu og mikillar eflingar forlags og búðar.

Um leið og ég hvet lesendur blaðsins til að líta inn á Óðinsgötunni, eða hafa samband á annan hátt, hvet ég ykkur til að styðja forlagið með fjárframlögum og kaupum og útbreiðslu á efni. Sendið fyrirspurnir og pantanir í pósthólf 5186 í Reykjavík. Framlög skal leggja inn á gíró 12200-9 merkt Október-söfnun.

# Framboð Fylkingarinnar og „KFÍ/ML": Fengu verðugan rassskell

Framboð litlu spámannanna í hópi endurskoðunarsinna, þ.e. Fylkingarinnar og "Kommúnistaflokksins" fengu illa og verðuga útreið í þingkosningunum. R-listi Fylkingarinnar fékk 184 atkv. (fékk 149 í kosningunum '74), en K-listi "KFÍ/ML" fékk 128 atkv. í stað 121 árið 1974! Ljóst er því, að þeir fjölmörgu sem óánægðir eru með stéttasamvinnustefnu og svik Alþýðubandalagsforystunnar hafa fremur valið að kjósa AB, en K- og R-listann, aðrir skiluðu auðu.

Bæði Fylkingin og "KFÍ/ML" gera tilkall til að kallast "kommúnísk samtök", en það eru þau alls ekki í reynd. Ótal röksemdir fyrir þessari staðhæfingu hafa komið fram í málflutningi hinna einu kommúnísku samtaka á Íslandi, þ.e. EIK(m-l). Nægir að benda á hér um bil hvert einasta tbl. Verkalýðsblaðsins frá upphafi til að lesa nánar um afstöðu samtakanna til fyrrnefndra tveggja samtaka. En hér skal aðeins bent á eina röksemd, röksemd sem byggist á því á hvern hátt þau tóku þátt í kosningum til borgaralegs þings.

Grundvallarregla kommúnískra samtaka sem taka þátt í störfum borgaralegs þings, eða framboði til þings, er fyrst og fremst sú að afhjúpa á allan hátt fyrir verkafólki og alþýðu þingræðisblekkinguna, sýna fram á hvernig þingið og allar valdastofnanir auðvaldsþjóðfélagsins eru leynt og ljóst tæki borgarastéttarinnar til að viðhalda undirokun, arðráni og þjóðfélagslegum völdum. Borgarastéttin "leyfir" kommúnistum að taka þátt í kosningaleiknum – þar til að því kemur að hin kommúníska hreyfing er orðin það sterk að hún er verulega farin að ógna tilveru auðvaldsskipulagsins. Þá eru kommúnískir flokkar einfaldlega bannaðir með lögum, eða kjördæmaskipun breytt, til að þeir geti a.m.k. ekki fengið kjörna þingmenn. Dæmi um þetta eru fjölmörg, m.a. frá Frakklandi.

Spurningin er þá þessi: Buðu Fylkingin og "KFÍ/ML" fram í þeim yfirlýsta tilgangi að afhjúpa þingræðið og þar með þátt borgaralegu verkalýðsflokkanna í viðhaldi þess? Svarið er NEI!

FYLKINGIN hafði sem höfuðmarkmið að bjóða óánægðum Alþýðubandalagsmönnum upp á valkost til að "sporna við hægri þróun AB", eins og það var orðað! Þá vildu Fylkingartrotskyistar ólmir að Alþýðubandalagið færi frekar í ríkisstjórn með Alþýðuflokknum en Framsókn, og hver veit nema þeim verði að þeirri ósk sinni!

Það var ekki nema von að kjósendum gengi illa að átta sig á því hvað snéri fram og hvað aftur á Fylkingarframboðinu. Í sjónvarpsþætti, sem gaf Dave Allen ekkert eftir að skemmtilegheitum, komu fram nokkrir trottar og snýttu pínulítið rauðbrúnara en prófessor Ólafur og Guðmundur J(aki) og aðrir AB-foringjar. Í lokin kórónuðu Fylkingarmenn framlag sitt með því að lýsa yfir því að í þeim kjördæmum sem þeir byðu ekki fram, hvettu þeir kjósendur til að kjósa Alþýðubandalagið! "Vafasöm meðmæli þetta", stundu Alþýðubandalagsmenn framan við sjónvarpstækin. Og kjósendur skildu eðlilega ekki hvernig Alþýðubandalagið í Reykjavík gat verið "gallað", en svo þegar yfir Kópavogslækinn kom var það orðið bráðgott og kjósanlegt!

"KOMMÚNISTAFLOKKUR ÍSLANDS" var í banastuði í framboðsleikunum. Frambjóðendur hans voru ekkert að tvínóna við hlutina og gáfu kosningaloforð á báða bóga eins og "stóru flokkarnir" og nutu lífsins líkt og krakki sem komist hefur í sultukrukku.

"Lítið fylgi K-listans, en mikið fylgi G-listans, myndi efla hægrimenn innan Alþýðubandalagsins og gefa þeim tilefni til að ætla að þeir geti leyft sér hvers kyns svik og og undanslátt, án andstöðu baráttumanna", sagði Stéttabaráttan. Í sama tbl. er birt kostulegt viðtal við Gunnar Andrésson, efsta mann K-listans, og freistandi væri að birta sem mest úr því, því það er verulega skemmtileg lesning – en um leið lærdómsrík. Hér er orðrétt tilvitnun: "Kommúnistaflokkurinn hefur margbent á að herða verður allt verðlagseftirlit, með það að markmiði að koma í veg fyrir auðsöfnun atvinnurekenda og fjármálabraskara á verðbólgunni. Þetta á einnig við úrlausnir ríkisvaldsins í skattamálum.

Kommúnistaflokkurinn hefur bent á að velta verður skattabyrðunum af verkafólki yfir á stóru atvinnufyrirtækin. kommúnistaflokknum er einum treystandi til að vinna að þessum málum. Allir aðrir hafa reynst ófærir um að koma þessum málum í framkvæmd". Lengra þarf ekki að lesa, meira þarf ekki að tína fram. Augljóst er að þarna skilur bókstaflega ekkert á milli málflutnings Gunnars annars vegar og Ólafs Ragnars og Vilmundar hins vegar. Þarna var ekki á ferðum kommúnískt framboð.

Niðurstaðan er því sú, að í kosningunum var ekkert kommúnískt framboð, heldur átti róttækt fólk kost á því að kjósa opinskátt krataframboð Alþýðubandalagsins og tvö rauðleitari framboð sem þó bæði tóku þátt í kosningunum á grundvelli borgaralegs stjórnmálaflokks. Menn sáu því ekki ástæðu til að lýsa stuðningi við þessi framboð og kusu flestir Alþýðubandalagið. Allt of fáir urðu til að skila auðu.



**Fylkingin tapaði 0,053 % atkvæða í Alþingiskosningunum. Hún hvílir nú í bakgarði Alþýðubandalagsins, dauðvona og hrjáð.** Myndin sýnir hreysi Fylkingarinnar við Laugaveg. Illar tungur herma, að "KFÍ/ML" sæki nú fast á að fá að flytja þangað inn. (Mynd: Verkalýðsblaðið.)



## Tékkaslóvakía fyrr og nú 1. grein

# Hvers vegna kom „vor í Prag" ?

21. ágúst í sumar eru liðin 10 ár frá innrás herja Varsjárbandalagsins í Tékkóslóvakíu og síðan hafa Sovétríkin hersetið landið. 21. ágúst hefur fest í sessi sem alþjóðlegur baráttudagur gegn sósíalheimsvaldastefnu Sovétríkjanna, einnig á Íslandi. Í öllum tbl. Vbl. fram til 21. ágúst verður að finna greinar um ástandið í Tékkóslóvakíu í dag, ástæður innrásarinnar og hersetunnar og um lærdómana af "Tékkó-málinu". Í þessu blaði, og raunar því næsta einnig, verður eingöngu fjallað í stuttu máli um helstu viðburði í þjóðfélagsþróuninni í Tékkóslóvakíu frá 1918 til 1968. Síðan verður fjallað um sjálfa innrásina og ástandið síðan.

Árið 1918 hélt verkalýður í Tékkóslóvakíu á lofti kröfum um sósíalískt lýðveldi, en hafði hvorki forystu né styrk til að fylgja þeim eftir. Ári síðar klofnaði flokkur sósíaldemókrata og stofnaður var Kommúnistaflokkur Tékkóslóvakíu. Hann jók áhrif sín mjög hratt og árið 1925 varð hann næst stærsti flokkur landsins í kosningum. Á þessum árum var stéttabaráttan í landinu afar hörð: lögreglu og vopnuðum hersveitum var oft beitt gegn verkafólki og margir verkmenn létu lífið í átökum. Á þriðja áratugnum varð til tiltölulega sterk fasísk hreyfing sem var tengd Hitlers-nasismanum sterkum böndum. Hitler og tékkneski fasistaforinginn Henlein voru til dæmis algerlega sammála um að Þýskaland ætti tilkall til landssvæða í Tékkóslóvakíu.

### MUNCHEN –1938

Í fyrstu krafðist Hitler hluta Tékkóslóvakíu – en vildi helst fá allt landið. Vesturveldin reyndu að róa hann og jafnframt að egna hann til að ráðast á Sovétríkin, en létu að nokkru undan kröfunum. Stjórn Tékkóslóvakíu, sem var veik og bundin Vesturveldunum, reyndi ekki að spyrna við fótum þrátt fyrir mikla andstöðu alþýðunnar. Í Munchen 1938 var Tékkóslóvakíu skipt upp með samkomulagi og velvilja Vesturveldanna – án þess að stjórn Tékkóslóvakíu einu sinni væri á staðnum! Á sama hátt og Vesturveldin á sínum tíma áttu þátt í stofnun ríkisins Tékkóslóvakíu, áttu þau þátt í því að brytja landið niður. En ekki var Hitler mettur samt.

### FRELSISBARÁTTAN 1939–1945

Barátta Tékka í heimsstyrjöldinni er lýsandi dæmi um það hvernig þetta fólk hefur aldrei látið kúgast af erlendu valdi. Þrátt fyrir að aldrei væri um að ræða vel skipulagða vopnaða andspyrnuhreyfingu gegn nasismanum, þá var andstaðan mikil, bæði vopnuð og óvopnuð, m.a. voru skemmdarverk mikið stunduð. 1941 sendi Hitler R. Heydrich til Prag til að brjóta andstöðuna á bak aftur. Þegar Heydrich var komið fyrir kattarnef, svaraði Nasi-Þýskaland með því að jafna bæinn Lidice við jörðu. Á fáum stöðum í Evrópu frömdu nasistarnir önnur eins voðaverk og í Tékkóslóvakíu.

Alþjóðleg barátta gegn fasismanum, og sérstaklega sigrarnir góðu við Stalíngrad, hvöttu föðurlandsvini í Tékkóslóvakíu til dáða. 1944 leiddi kommúnistaflokkurinn uppreisn í Slóvakíu. Hún var bæld niður eftir 2 mánuði, en skæruhernaður hélt áfram í héraðinu til stríðsloka. Landið var frelsað undan oki nasismans í maí 1945, eftir að lið úr Rauða hernum sovéska hafði komið til hjálpar og hreinsað burtu leifar nasismans.



### ALÞÝÐULÝÐVELDI OG GAGNBYLTING

Hernaðarvél nasismans var í molum. Tékkóslóvakía var frelsuð af vopnaðri alþýðu og Rauða hernum í sameiningu. Ný Tékkóslóvakía sá dagsins ljós. Mynduð var þjóðleg stjórn bænda, verkamanna, menntamanna og þess hluta borgarastéttarinnar sem barðist gegn nasistum. Spilverkið var kommúnistaflokkurinn. Lögð var fram [illegible] stefnuskrá fyrir lýðræðisbyltingu. Stefna þessi naut stuðnings alþýðunnar og kommúnistaflokkurinn hlaut 38% kjörfylgi í kosningum 1946. Gottwald, formaður hans, varð forsætisráðherra.

Árið 1948 reyndu borgaralegu flokkarnir með samræmdum aðgerðum að sundra þjóðfylkingunni og eyðileggja lýðræðisstefnuskrána. Þeirri árás var hrundið og öreigalýðræðið tryggt. 1948 var lýst yfir að Tékkóslóvakía væri alþýðulýðveldi sem þróaði sósíalisma.

Næstu árin voru alþýðulýðveldinu gifturík. Fyrsta fimm ára-áætlunin var árangursrík og auðvaldsöflum var haldið skipulega niðri. Alþýðumenning blómstraði í landinu og gróska var áberandi í öllu þjóðlífi.

En vissulega voru blikur á lofti: Það var "kalt stríð" í heimi. Í skjóli af baráttunni gegn bandarísku heimsvaldastefnunni, og í skjóli af skrifræðiskerfi ríkis og flokks, hreiðruðu auðvaldsöflin um sig í valdastöðum, hægt en örugglega. Oddviti borgaraflanna var Antonin Novotny. Að Gottwald látnum 1953 varð hann flokksritari. En það var ekki fyrr en Krúsjef hafði náð æðstu stöðum í Sovétríkjunum 1956, að Novotny hlaut stuðning við bakið til að ganga skrefið til fulls. Krúsjef studdi hann í forsetaembætti 1957 og með vilja og stuðningi Kremlverja afnam Novotny alþýðuvöldin í Tékkóslóvakíu og byggði hagkerfi gróðans í staðinn. Í lok 6. áratugsins var auðvaldskerfi komið á til fulls og hin nýja borgarastétt beitti ríkisvaldinu gegn verkalýðnum og alþýðu af fullri hörku. Það var oft fasískt yfirbragð og innihald í stjórnarathöfnum Novotny-stjórnarinnar. Gagnbyltingin hafði sigrað og Novotny sjálfur sat í valdastól hins fasíska einræðisherra – undir stjórn Sovétríkjanna – allt til ársins 1968, þegar honum var steypt úr stóli.

### HVERS VEGNA KOM "VORIÐ Í PRAG"?

Hvers vegna féll Novotny? Hvers vegna kom "vor í Prag"? Þróunin síðustu ár Novotnys er vert að gefa gaum, þar sem þar er að finna margar móthverfur sem ætíð koma upp í löndum þar sem gagnbylting hefur sigrað sósíalisma. Jafnframt er að finna séreinkenni fyrir þróunina í Tékkóslóvakíu.

Í fyrsta lagi, efnahagsmálin. Sovétríkin og öll leppríki þeirra gengu í gegn um harða kreppu um 1960. Kreppan **stóð yfir í fáein ár, en varð** harðari í Tékkóslóvakíu en í nokkru öðru landi í Austur-Evrópu. 1963 hrapaði þjóðarframleiðsla um 3%, sem er einsdæmi í nútíma auðvaldshagkerfi á friðartímum. Þessi afturkippur var í hrópandi mótsögn við glæsilegan árangur alþýðulýðveldisins Tékkóslóvakíu, en þar náði þjóðarframleiðslan að stíga um 12% á einu ári.

Í öðru lagi, lífsstuðullinn. Kreppan færði verkafólki neyð og skort. Samtímis lifðu flokksforingjar og ríkisforstjórar í vellystingum. En byltingarhefðir alþýðunnar voru sterkar og forréttindalíf yfirstéttarinnar var harðlega gagnrýnt. Fjöldi verkamanna var rekinn úr kommúnistaflokknum á 6. áratugnum, aðrir gengu út. Hlutfall verkafólks í flokknum lækkaði úr 40% í 30% á skömmum tíma.

Í þriðja lagi, menntamennirnir. Menntamenn og listamenn gagnrýndu Novotny óvenju einarðlega og hann átti stöðugt í erjum við þennan þjóðfélagshóp. Fjöldi rita og blaða var settur á bannlista.

Verkalýðsstéttin og menntamenn mynda straum sem stöðugt stækkar og styrkist og krefst lýðréttinda, afnám ritskoðunar afnám forréttinda o.s.frv. Novotny tekst ekki að stöðva strauminn.

Í fjórða lagi, barátta innan borgarastéttarinnar. Þessi barátta er afleiðing kreppuástandsins. Ota Sik er þekktur leiðtogi þess hluta borgarastéttarinnar sem heimtaði "nútíma auðvaldsskipulag". Hann krafðist hraðrar endurskipulagningar markaðskerfisins og aukinnar miðstýringar. Þessar kröfur ógnuðu veldi Novotnys og hann barðist ákaflega gegn "yngingu" á auðvaldskerfi landsins. Þess vegna kom fram viss stöðnun í þróun þjóðfélagsins og móthverfur innan borgarastéttarinnar – á milli hinna "hægfara" (Novotny) og hinna "nútímalegri" auðherra (Sik, Dubcek), urðu skarpari.

Í fimmta lagi, afstaða Sovétríkjanna. Ein mikilvæg ástæða kreppunnar var hraðvaxandi arðrán Sovétríkjanna í Tékkóslóvakíu. Sovétríkin keyptu ódýrt og seldu dýrt. En Brésjnev var hins vegar á þeirri skoðun – eins og allir sannir auðherrar, að efnahagslíf Tékka væri staðnað. Því þyrfti að breyta, til að arðvænlegra yrði þar um að litast. Þess vegna studdi Brésjnev umbótabaráttu Dubceks gegn Novotny.

Það sem Brésjnev sá, það sem Dubcek sá, en það sem Novotny virtist ekki skynja, var að hin vaxandi lýðræðishreyfing verkalýðs og menntamanna gæti orðið yfirstéttinni hættuleg, svo framarlega sem endurskoðunarsinnarnir sjálfir reyndu ekki að ná forystu fyrir henni. Þess vegna féll Novotny hljóðlítið og þess vegna kom "lýðræðisbyltingin" 1968 án hávaða. Flokksforystan vék fyrir nýrri. Novotny fór. Dubcek kom.

(Næst: Dubcek-tíminn).



**Lönd vilja sjálfstæði · þjóðir vilja frelsi · alþýðan vill byltingu**

# Saga Albaníu: Saga frelsisbaráttu smáþjóðar

Albanía er lítið fjöllótt land á Balkanskaganum, og á landamæri að Júgóslavíu í norður og austur, að Grikklandi í suður, og á strönd að Adríahafi í vestur. Íbúar landsins eru rúmlega 2 millj. og í höfuðborginni Tirana búa um 200 þús. manns.

Albanía var um áraraðir kúguð af öðrum löndum; fyrr á öldum af Grikkjum og Rómverjum. Á miðöldum reyndu Byzans og ítölsku verslunarborgirnar að tryggja sér markaði í Albaníu fyrir vörur sínar. Á 15. öld var Albanía hertekin af Tyrkjum, líkt og önnur Balkanlönd, en Tyrkir voru stærsta herveldi þess tíma. Albanska þjóðin hefur alla tíð barist fyrir frelsi sínu, og á seinnihluta 15. aldar barðist hún gegn yfirráðum Tyrkja undir forystu lénsherrans Skanderberg, og hefur Skanderberg æ síðan verið þjóðhetja Albana.

I Balkan-stríðinu 1912 tókst Albaníu að losa sig undan 450 ára kúgun Tyrkja, en sjálfstæði landsins varði ekki lengi. 1922 komst albanski aðalsmaðurinn Ahmed Zogu til valda með aðstoð erlendra málaliða, og tilnefndi sjálfan sig seinna sem konung. Stjórn Zogu var mjög afturhaldssöm, og nokkrum árum seinna var Albanía gerð að hálfnýlendu Ítala. 1939 hertóku ítölsku fasistarnir Albaníu; þeir þörfnuðust ekki lengur þjónustu Zogus. Herseta fasistanna leiddi til skipulagðrar andstöðu alþýðunnar. Í þessari baráttu var Kommúnistaflokkur Albaníu stofnaður árið 1941 (nú Flokkur vinnunnar), undir forystu núverandi formanns flokksins, Enver Hoxha. Fasistarnir megnuðu ekki að brjóta á bak aftur baráttu alþýðunnar og árið 1943 gáfust Ítalir upp. Að vörmu spori sendi Hitler hersveitir sínar til Albaníu, en þær voru einnig hraktar burt.

Þann 29. nóvember1944 var öll Albanía frelsuð. Hin harða barátta í frelsisstríðinu, hafði kennt albönum að standa saman og treysta á eigin krafta. Þetta kjörorð hefur albönsk alþýða haft að leiðarljósi í hinni miklu sósíalísku uppbyggingu, sem hófst strax eftir frelsunina 1944.

## FRJÁLST VERKALÝÐSFÉLAG STOFNAÐ Í PÓLLANDI.

Nýlega stofnuðu tveir frumkvæðishópar í Póllandi frjálst verkalýðsfélag, í andstöðu við opinberu verkalýðsfelögin. Í lok apríl gaf hópur verkamanna við skipasmíðastöð í Gdansk út yfirlýsingu,sem hvatti til myndunar frjálsra verkalýðsfélaga. Þetta var eftir að líkt frumkvæði hafði komið fram í námu-og iðnaðarbænum Katowice.

Í Gdansk-yfirlýsingunni segir að opinberu verkalýðsfélögin í Póllandi séu verkfæri í höndum "hinna einokunarsinnuðu vinnuveitenda", og því hafi verkalýðsstéttin ekki lengur nein samtök, sem verji og berjist fyrir hagsmunum hennar. Þetta er grundvöllur stofnunar frjáls verkalýðsfélag í Póllandi, og byggir hann á reynslunni frá verkföllum1970 og 1976.

Tveir frumkvæðismanna hafa verið handteknir og Gierek-stjórnin reynir ákaft að sundra andstöðuliðinu

# FÉLAGI KUO MOJO ER LÁTINN

Félagi Kúó Mójó er látinn. Hann lést þann 12. júní s.l., 86 ára gamall, eftir langvarandi veikindi.

Kúó Mójó var meðlimur miðstjórnar Kommúnistaflokks Kína, varaformaður þjóðlegrar ráðgjafanefndar kínversku alþýðunnar, forseti kínversku vísindaakademíunnar og formaður í sambandi kínverskra bókmennta-og listahópa.

Félagi Kúó Mójó var góður vinur Maós formanns og harður andstæðingur þeirra endurskoðunarsinnuðu klíka sem upp komu í Kína á dögum hans. Hann barðist gegn Líú Sjátsí, Lín Píá og loks fjórmenningaklíkunni, sem reyndi að hrifsa til sín völdin eftir lát Maós formanns.

Tvö af ljóðum Maós Tsetúngs eru kennd við nafn Kúós Mójós. Við birtum hér hið síðara, "Svarljóð til félaga Kúó Mójó", ort. ort árið 1963, í íslenskri þýðingu Guðmundar Sæmundssonar.

SVARLJÓÐ TIL FÉLAGA KÚÓ MÓJÓ
- Bragarháttur : "Gjörvallt fljótið er rautt"



Á þessum örlitla hnetti
ráðast flugur á veggi
þær suða án afláts
hræddar
örvinglaðar
Á jóhannesarbrauðstrénu
gortar einn mauranna :
- við eigum stórt land
og ekkert er auðveldara
en að grafa undan risatrénu
Vestanvindar
feykja laufi yfir Tsjangan
Örvar
þjóta suðandi hjá

Svo margri dáð
ætti að vera lokið
hvert andartak krefst skipulags
jörðin snýst
himininn hverfist
- Bíða í árþúsundir ?
Það er of lengi -
MÆTUM DEGI !
Höfin fjögur skulu mylja hlekkina
ský og bylgjur
skulu settar af stað
meginlöndin fimm skulu skjálfa
vindar og þrumur skulu öskra :
- Afl vort er ósigrandi
sópum burt
öllum meindýrum !

(Úr "Gangan mikla. Ljóð Maós Tsetúngs", 1977)

# Sendiherra Albaníu á Íslandi: „Styðjum baráttu Íslands fyrir sjálfræði"



Nýskipaður sendiherra Albaníu á Íslandi, Bashkim Dino, átti vikudvöl hér á landi og afhenti forseta Íslands trúnaðarbréf sitt. Í för með sendiherranum var verslunarfulltrúi Albaníu, Myfit Hazibiu, og var tilgangur hans að koma á verslunarsamskiptum milli landanna tveggja. Verkalýðsblaðið náði tali af albönsku félögunum, og fer viðtal við sendiherran hér á eftir.

### MIKILVÆGT AÐ EFLA SAMSKIPTI SMÁÞJÓÐA.

Vbl.: Hvenær komust formleg samskipti á milli landanna tveggja?

Bashkim Dino: Formlegum samskiptum var komið á fyrir tveimur árum, er fulltrúar landanna tveggja áttu með sér viðræður í Stokkholmi. Þetta er í fyrsta skipti sem albanskur sendiherra kemur til landsins, þannig að þetta er í raun sögulegur atburður. Við teljum að Ísland og Albanía eigi margt sameiginlegt; Þetta eru hvortveggja lítil Evrópulönd. Við leggjum áherslu á að styðja baráttu Íslands fyrir sjálfræði, og studdum eindregið útfærslu fiskveiðilögsögu Íslands út í 200 mílur.

Vbl.: Hvernig mun samskiptum landanna verða háttað?

B.D.: Samskiptin munu vera bæði verslunar- og menningarleg. Við viljum hefja gangkvæma verslun við landið undir kjörorðinu "við gefum og tökum". Albanía hefur aðeins gagnkvæma verslun við einstök lönd, en ekki "blokkir", eins og t.d. Efnahagsbandalag Evrópu. Það sem Albanía hefur landi ykkar að bjóða eru ýmis konar iðnaðar- og landbúnaðarvörur. Margt kemur til greina að Albanía kaupi frá Íslandi, svo sem fiskur, fiskinet, ullarvörur og óunnar skinnavörur. Einnig er mikilvægt að koma á menningarlegum tengslum milli landanna.

### VEL ÞRÓAÐUR IÐNAÐUR Í ALBANÍU.

Vbl.: Hvað hefurðu að segja okkur um hina miklu sósíalísku uppbyggingu í Albaníu.

B.D.: Fyrir 1944 var Albanía landbúnaðarland. Nú koma meira en 60% þjóðartekna frá iðnaði. Við leggjum mikla áherslu á iðnaðaruppbygginguna, og er iðnaður mjög fjölbreyttur. Albanía er auðugt land af margs konar málmum, og einnig finnst þar nokkur olía. Sem dæmi má nefna að við erum þriðju stærstu krómframleiðendur heims, og nýlega var tekið í notkun stórt stáliðjuver. Þá framleiðum við úr olíu 56 vörutegundir.

Einnig hafa orðið miklar framfarir í landbúnaði, og höfum við mörg þróuð samyrkjubú. Mikil vatnsorka er í Albaníu, og hafa allar borgir og bæir verið rafvæddir. Einnig er flutt úr raforka til Grikklands og Júgóslavíu. Allt þetta hefur verið byggt upp eftir frelsun landsins undan fasistum 1944. Við treystum sem mest á eigin krafta og framleiðum nú allar neysluvörur heima. Það sem við kaupum aðallega frá öðrum löndum eru ýmiskonar vélar. Við höfum góð verslunarsambönd víða um heim, þó eru nokkur ríki sem við viljum engin samskipti við, s.s. Bandaríkin, Sovétríkin, Ísrael, S-Kórea og S-Afríka.

Að lokum vil ég taka það fram að okkur hefur verið mjög vel tekið hér á landi og kann ég vel við bæði land og þjóð.

# Eritreu söfnun




Eins og lesendur Verkalýðsblaðsins hafa orðið varir við, hafa engar upplýsingar birst um Erítreu-söfnunina í tveim síðustu tbl. Vegna mistaka hafa upplýsingar ekki borist ritnefnd um gang söfnunarinnar. Verður nú gerð bragarbót á því.

Nú hafa safnast kr. 47.386 ég má vel við una, þar sem söfnunin stendur til 1. sept. Hafa framlög borist jafnt og þétt, og söfnuðust kr. 15.000 á kosningafundi EIK(m-l).

Félagar, herðum róðurinn, förum langt yfir markið. Aldrei hefur þörfin fyrir stuðning verið meiri í Erítreu, nú þegar fasistarnir í Eþíópíu sækja harðar enn nokkru sinni fyrr að frelsishreyfingum og allri alþýðu Erítreu.

Lifi ELF og EPLF!

Lifi barátta alþýðu Erítreu gegn innrás fasistanna í Eþíópíu með stuðningi heimsvaldasinna Sovétríkjanna!

# Meðlimir PAC dæmdir í Swaziland

Í síðasta mánuði voru 50 meðlimir PAC (Pan Africanist Congress, í Azaníu), handteknir í Swazilandi, og hafa þeir setið í fangelsi síðan án dóms. 3 þeirra komu fyrir rétt fyrir skömmu, og voru tveir dæmdir til fangelsisvista fyrir að hafa vopn og skotfæri undir höndum, en sá þriðji verður afhentur fasistastjórninni í Suður-Afríku (Azaníu), fyrir sömu "sök". PAC-meðlimurinn Gabiszulu fékk 21 mánaða fangelsisdóm, Blzamzoni 18 mánaða, en Mngomizulu verður sendur böðlum fasistana í S-Afríku, og bíður hans líklega dauðadómur þar.

Það stingur nokkuð í stúf, að stjórn Swazilands undirritaði ásamt öðrum ríkjum, svo nefnda Dar es Salaam-yfirlýsingu, sem styður vopnaða frelsisbaráttu í suður hluta Afríku. Þessi sama ríkisstjórn fangelsar, og sendir frelsishetjur til Vorsters.

Hinir 47 PAC-meðlimirnir sitja enn í fangelsi. Stjórnvöld Swazilands segja að þetta sé "millibilsástand", þar til eitthvert ríki lýsi sig fúst til að taka við föngunum.

Mótmæli gegn dómnum á PAC-meðlimunum þrem, gætu komið í veg fyrir afhendingu Mngomizulus til Vorsters. Sendið mótmæli til: The Government of Swaziland, Mbabane, Swaziland.

Styðjum PAC!

# Falangistar..

framhald af forsíðu.

maður falangistaliðsins í S-Líbanon, Saad Haddad, krefst þess að yfirráð herliðs hans, sem telur um 600 manns, séu talin lögleg, þar sem hann er fyrrum herforingi í líbanska hernum. Líbönsk stjórnvöld hafa mótmælt þessu, og krafist að Saad Haddad láti svæðin af hendi til gæslusveita SÞ.

Það er alkunn baráttuaðferð síonista að nota falangistana sem eins konar aðstoðarhersveitir í Líbanon, og hafa þeir látið falangistum vopn í té. Allt frá 1975 hafa falangistar marg sinnis reynt að hertaka líbönsk þorp með ísraelskum skriðdrekum. Tilgangur síonista með innrásinni inn í S-Líbanon í mars var m.a. að brjóta á bak aftur palestínsku frelsishreyfinguna. Þetta mistókst, og síonistar voru neyddir til að draga herlið sín til baka út úr Líbanon, og þá þurfa þeir enn á ný að treysta á falangistana.

Þeir einu sem eiga traust og virðingu líbönsku þjóðarinnar eru þeir sem, hófu baráttuna gegn hernámssveitum síonista í mars ásamt alþýðu landsins, þeir sem lögðu líf sitt í sölurnar fyrir frelsi og sjálfstæði þjóðarinnar, þ.e. hersveitir líbana og palestínuaraba.

### "VANMÁTTUR" GÆSLUSVEITA SÞ

Þrátt fyrir kröfu líbanskra yfirvalda um að falangistar láti af hendi svæðin sem Ísraelsmenn hertóku til gæslusveita SÞ, er ekkert útlit fyrir það að gæslusveitirnar reyni að yfirtaka svæðið. Falangistarnir hafa umkringt og ráðist á hluta norsku gæslusveita SÞ, þannig að ljóst er að það er ekki PLO sem ógnar gæslusveitunum, heldur falangistarnir - "handlangarar" síonista í S-Líbanon.

PLO hefur lagt á það áherslu að þeir vilji hafa gott samstarf við gæslusveitirnar, svo framarlega sem þær ráðist ekki á lagalegan rétt þeirra í S-Líbanon, sem þeir hafa samkvæmt Kairósáttmálanum frá 1969.

Þetta undirstrikar aðeins vanmátt gæslusveitanna og að koma þeirra til S-Líbanon miðast fyrst og fremst að því að gæta hagsmuna Ísraelsríkis, eins og bent hefur verið á áður í Verkalýðsblaðinu.

## Stofnum kommúniskan flokk 1.

# V.I. Lenín:
# Um starfið meðal fjöldans

Það er skylda okkar að auka og víkka út starf okkar og áhrif meðal fjöldans í sífellu. Sá kommúnisti sem sinnir því ekki er enginn kommúnisti. Engin deild, hópur eða sella getur litið á sig sem kommúníska einingu nema hún vinni reglulega og stöðugt að þessu marki. Við aðgreinum okkur vandlega sem sjálfstæður og tvímælalaus flokkur öreiganna. Árangur þeirrar aðgreiningar hvílir að miklu leyti á því að við sinnum því marxíska verkefni okkar að lyfta meðvitund allrar verkalýðsstéttar upp á stig kommúnískrar vitundar, svo sem kostur er. Engir stjórnmálalegir ávinningar, og enn síður breytingar á sviði stjórnmálalífs, mega draga úr þessu mikilvæga starfi okkar. Ef við sinnum því ekki, koðnar stjórnmálastarf okkar óhjákvæmilega niður í leikaraskap. Raunverulegt mikilvægi þessa starfs felst í því einu að það vekur upp fjöldann í ákveðinni stétt, stuðlar að hagsmunum hans og veldur því að hann tekur virkan, leiðandi þátt í atburðunum. Þetta starf er – eins og ég hef minnst á – ávallt nauðsynlegt. Þegar mótlæti hefur mætt okkur, ættum við að minnast þessa og leggja áherslu á það, því að veikleiki á þessu sviði er alltaf ein af orsökunum fyrir ósigrum öreigastéttarinnar. Á sama hátt ber okkur að vekja athygli á því og leggja áherslu á mikilvægi þess eftir sérhvern sigur. Annars verður sigurinn aðeins sýndarsigur. Ávextir hans verða annars ekki tryggðir. Mikilvægi hans í hinni miklu baráttu fyrir lokamarkmiðinu verður annars vanmetið og færir okkur jafnvel aftur á bak (einkum ef áfangasigurinn slævir árvekni okkar,



dregur úr vantrausti okkar á óáreiðanlegum bandamönnum og veldur því að við förum á mis við tækifærin til að gera nýja og sigursæla árás á óvinin).

### FRÆÐSLAN ER HLUTI STARFSINS

Þetta verkefni – að auka og víkka út áhrif okkar á fjöldann – er alltaf nauðsynlegt, eftir sérhvern sigur og sérhvern ósigur, á tímum stjórnmálalegrar kyrrstöðu og á stormasömustu byltingartímum. Samt megum við ekki breyta áherslu okkar á þessu starfi í slagorðaglamur eða byggja á því sérstaka stefnu. Þá væri hætta á því að við legðumst í lýðskrum og misstum sjónar á markmiðum þeirrar stéttar sem í senn er bæði framsækin og eina raunverulega byltingarsinnaða stéttin. Einn þáttur í stjórnmálastarfi kommúnísks flokks er og mun alltaf snúa að fræðslu og uppeldi. Við verðum að mennta alla launavinnumenn upp í hlutverk baráttumanna fyrir því að losa allt mannkynið undan kúguninni. Við verðum að fræða sífellt stærri hluta þessarar stéttar. Við verðum að læra að koma til móts við þá sem styst eru komnir, vanþroskuðustu meðlimi stéttarinnar, þá sem hafa orðið fyrir minnstum áhrifum af vísindum okkar, vísindum lífsbaráttunnar. Við verðum að geta talað við þá, nálgast þá, lyft þeim stöðugt og af þolinmæði nær stigi kommúnískrar vitundar. Ekki með því að gera fræði okkar að þurrum kennisetningum – með því að kenna aðeins af bók – heldur með þátttöku í daglegri baráttu þessa vanþroskaðasta og styst komna hluta öreigastéttarinnar fyrir tilveru sinni. Ég endurtek, að fræðsla er ákveðinn þáttur í þessu daglega starfi. Kommúnisti sem missir sjónar á því er ekki lengur neinn kommúnisti. Það er sannleikur. En nú á dögum vilja sumir okkar gleyma að kommúnisti sem einangrar verkefni stjórnmálastarfsins við fræðslu og uppeldi eingöngu er – af öðrum ástæðum þó – ekki heldur neinn kommúnisti lengur.

(Þessi greinarbútur er tekinn úr handriti sem Lenín skrifaði í júní árið 1905 eftir tímabundinn mótbyr flokksins í 1.maí-aðgerðum. Handritið var ekki birt fyrr en 1926. Greinarbúturinn er hér þýddur upp úr V.I.Lenín: On Building the Bolshevik Party. Selected Writings 1894-to 1905. Liberator Press USA 1976, bls. 349-350.)

## 17. júní:
# Verjum sjálfræði Íslands - gegn allri heimsvaldastefnu

Það vakti athygli þess fjölda fólks sem saman safnaðist í miðbænum þann 17 júní s. l., að hópur fólks gekk þar vasklega fram í að dreifa dreifimiðum um sjálfræðisbaráttuna og nauðsynina á því að berjast gegn báðum risaveldunum, Bandaríkjunum og Sovétríkjunum. Var þarna um að ræða nokkra þeirra sem stóðu fyrir því að gera 1. des. s.l. að baráttudegi. Fréttamaður Vbl. tók einn þessara dreifingarmanna tali.

– Hverjir standa fyrir þessari dreifingu?

– Það er framkvæmdanefnd Baráttunefndar 1. des. Það var ákveðið á skilafundi okkar að fela nefndinni að sjá til þess að eitthvað yrði gert 17. júní til að minnast baráttunnar fyrir verndun sjálfræðisins og gegn heimsvaldastefnu. Því miður höfðum við ekki bolmagn til frekari aðgerða, en ljóst er að síðar verður að gera meira til að fletta af þessum degi þeirri helgislepju sem auðvald og heimsvaldasinnar hafa sett á hann. Ég vil þó nefna að við báðum lögregluna um leyfi til að fá að hafa burst hér í miðbænum þar sem á væri hvatning til fólks um að minnast þess hvert raunverulegt innihald þessa dags er og á að vera. Lögreglan vísaði á Þjóðhátíðarnefnd Reykjavíkur, svo að við höfðum samband við formann hennar, Margréti S. Einarsdóttur. Hún brást illa við og kvaðst mundu láta lögregluna fjarlægja okkur, ef slíkt yrði gert.

– Hverjar eru helstu kröfur sem þið setjið fram?

– Helstu kröfurnar eru þær sömu – efnislega – og við settum fram fyrir 1. desember s.l. þ. e. 1) Verjum sjálfræði Íslands, 2) Ísland úr Nató – herinn burt, 3) Gegn erlendri stóriðju og 4) Gegn heimsvaldastefnu risaveldanna, Bandaríkjanna og Sovétríkjanna.

Verkalýðsblaðið fagnar þessu frumkvæði framkvæmdanefndar Baráttunefndar 1. des. og tekur undir það að full þörf er á að vinna að því að gera 17. júní að baráttudegi fyrir verndun sjálfræðisins.




## LESENDABRÉF

# Frá lesenda:
# Til Árna Bergmann



Borgari Árni Bergmann skrifaði grein í Þjóðviljann 11. júní og kallaði "Satt og logið um valdajafnvægið í heiminum". Mig langar til að gera nokkrar athugasemdir við grein Árna, með von um áframhaldandi umræðu sem flestra.

Greinin gengur út á kenninguna um valdajafnvægið svonefnda, þar sem að mínu mati, Árni tekur "jákvæða" afstöðu til sumra atriða (fárra) en "neikvæða" til annarra (flestra).

Í fyrsta lagi vantar algerlega í grein Árna að gera grein fyrir óumflýjanleik nýrrar heimsstyrjaldar. Árni elur á tálsýnum um að risaveldin "vitkist". En eins og Lenín segir okkur, eru stríð óumflýjanleg á meðan auðvaldið er við lýði og það hafa tvær heimsstyrjaldir sannað okkur ásamt fjölda annarra minniháttar stríða í fortíð og nútíð.

Í öðru lagi elur Árni á hættunni á gjöreyðingarstyrjöld, þar sem fólk á sér enga von og þar sem síst af öllu "venjulegt" stríð (eins og Árni kallar það) væri hugsanlegt.

Í þriðja lagi dregur Árni að mínu mati taum Sovétríkjanna í samanburði á herstyrk og árásarvilja. Hann gerir minna úr árásar og útþenslustefnu Sovétrisans en ástæða er til. Hann gerir ranga grein fyrir hvers vegna Sovétríkin vilja ekki draga úr vígbúnaðarkapphlaupinu, en segir jafnframt að það sé þeim afar þungt í skauti fjárhagslega. Árni skýrir ekki út (viljandi eða ómeðvitað) að vígbúnaður risaveldanna er vissulega dýr, en ekki af ástæðulausu halda þau uppteknum hætti og hreint ekki vegna eigin landvarna. Risaveldin vígbúast vegna efnahagslegra hagsmuna. Eðli auðvaldsskipulagsins krefst stöðugt nýrra og stærri markaða og auðlinda. Það eru orsakir vígbúnaðarins en ekki röksendir Árna.

Í fjórða lagi fjallar Árni um sigra og ósigra risaveldanna. Hann segir: "Það er t.d. sagt: Rússar sækja allsstaðar fram með áhrif og ítök... Þá er minnst t.d. Kúbu, Víetnam og Angóla sem dæmi upp á útþenslu sovéskra áhrifa. Í þeirri romsu fellst í fyrsta lagi fyrirlitning á þeim hreyfingum sem þjóðfrelsis – og byltingarbaráttu hafa háð í þessum löndum."

Í þessari tilvitnun er sú staðreynd staðfest að Sovétrikin reki útþenslustefnu, en Árni telur það fyrirlitningu á sjálfstæðishreyfingum fyrrgreindra landa að lá Sovétríkjunum íhlutun. Þessi afstaða Árna er röng og hreinn undirlægjuháttur við heimsvaldastefnu Sovétríkjanna( sem Árni kallar blátt áfram utanríkisstefnu), því það eru einmitt Sovétríkin sem fyrirlíta sjálfsákvörðun þjóða og traðka á þeim rétti.

Í þennan lið vantar einnig mikilvægi þess að sum ríki (sbr. Kampuchea,Víetnam, Eritrea o.fl.) hafa kastað af sér oki heimsvaldastefnunnar hvort heldur hinni bandarísku eða sovésku, af eigin rammleik. – Þannig að risaveldin eru þrátt fyrir allt sigranleg.

Í fimmta lagi hvetur Árni ( að vísu mjög varfærnislega) til þess að Ísland hverfi úr hildarleiknum og er það gott og blessað. Þessi afstaða gæti verið afstaða hvaða alþýðumanns eða konu sem sér að hagsmunir íslenskrar alþýðu eru best tryggðir án hernaðar – eða efnahagslegra tengsla við risaveldin tvö. Það þýðir m.ö.o. að íslenskri utanríkisstefnu, þrátt fyrir að borgarastéttin sé við völd, væri best farið sem sjálfstæðri og óháðri geðþótta risaveldanna. En þessi afstaða þarf að vera hrein og afdráttarlaus, án nokkurrar undirgefni eða undansláttarsemi. Það er forsenda þess að viðkomandi sé til reiðu að verja sjálfræðið með vopni í hönd sé því ógnað, hvort heldur er af bandaríska eða sovéska risanum.

Að lokum vil ég hvetja sem flesta að taka þetta mikilvæga mál (þ.e. hættuna á þriðju heimsstyrjöldinni og hvernig við henni skuli brugðist) til íhugunar. Fólki gefst kjörið tækifæri að ræða málin og hafa skoðannaskipti við aðra á sumarbúðum Verkalýðsblaðsins og EIK(m-l) um verslunarmannahelgina, en þá verður einmitt þetta mál í brennipunkti.

Ég hvet kannski sérstaklega fólk úr Alþýðubandalaginu og öðrum vinstri- hópum til þess að fara í gegnum stefnuskrár sinna samtaka eða flokka. T.d. segir afstaða Alþýðubandalagsins okkur að gagnleysi þess í komandi átökum er algert ef ekki skaðlegt. Rétt er að benda fólki á að meta Sovétríkin samkvæmt þeim lögmálum sem ráða stjórn og stefnu auðvaldsríkja þ.e. miskunarlaus útþenslustefna í von um auðlindir og nýja markaði þ.e. gróða, þar sem hernaði er beitt, miskunarlaust "gerist þess þörf". Í því tilfelli skiptir engu máli hve mjög Sovétríkin skreyta sig með friðarhjali eða sósíalisma, verkin segja allt annað.

Ég bendi á lesefni sem Október- forlagið hefur gefið út og efni sem selt er í Októberbúðinni að Óðinsgötu 30, Rvk. , svo sem þrjú síðustu tbl. Rauðliðans, þar sem er að finna m.a. greinar um Sovétríkin. Baráttuleið alþýðunnar hefur að geyma glögga greiningu á heimsvaldastefnu risaveldanna, auk bókar Leníns "Heimsvaldastefnan".

Lesandi.

# Og þá trylltist

Framhald af baksíðu.

Gvendur Jaki. Hann trylltist út af skrifum okkar um Kirkjusands-málið (þ.e. þegar reka átti Brynju Óskarsdóttur, trúnaðarmann Framsóknar, og tvær aðrar konur úr starfi. Verkalýðsblaðið hefur áður skrifað um þetta mál, – aths. Vbl.). Í þessu máli afhjúpaði maðurinn sig augljóslega fyrir verkafólkinu á Kirkjusandi sem leiðitamur þjónn atvinnurekenda, Þórunn Valdimarsdóttir sömuleiðis. Þetta kom fram í skrifum blaðsins og vakti litla hrifningu. Raunar gerði Gvendur Jaki tilraun til að koma í veg fyrir skrif blaðsins um Kirkjusands-málið, eða a.m.k. hafa áhrif á hvernig um það væri fjallað. Til þess sendi hann Hauk Má Haraldsson, blaðafulltrúa ASÍ, á ritstjórn Alþýðublaðsins, án árangurs (fréttin var ekki skrifuð fyrr en hann var örugglega farinn!) Þjóðviljinn var líka með blaðamann niðri á Kirkjusandi, þegar mesti hasarinn var, en Gvendur J. og Haukur Már komu í veg fyrir að þar væri skrifað eitthvað sem gerði hlut verkalýðsforystunnar tortryggilegan. Gvendur Jaki túlkaði Kirkjusands-frásagnirnar sem "Árásir á Þórunni Valdimarsdóttur" af því að við baunuðum á Þórunni rétt eins og Gvend sjálfan og Þórunn er í forystu Alþýðuflokksins.

Kratar tala mikið um "kjarasáttmála" þessa dagana. Getur þú frætt lesendur um hvað í þeirri hugmynd felst?

Nei, eiginlega ekki. Ég spurði á dögunum 3 toppkrata að því í einu, þar á meðal sjálfan Gröndal, en þá virtust þeir túlka þetta slagorð hver á sinn veg! Ég held helst að þeir hafi þýtt þetta stétta – samvinnuhugtak upp úr enskri kratabók til að flagga í kosningaslagnum, en í þessu felst einhvers konar lögbundin stéttasamvinna ASÍ-forkólfa og burgeisa, með blessum ríkisvaldsins. Þetta er stórhættulegur áróður og ætlaður til að auðvelda beislun verkalýðshreyfingarinnar meira en þegar er orðið. Eftirtektarvert er samt að Alþýðubandalagið hefur að mestu haldið kjafti um þennan "kjarasáttmála" kratanna. Það skyldi þó aldrei vera að þessar hugmyndir falli eins og flís við rass við hugmyndir foringja þess um framtíðarskipan kjarasamninga? Það er vegið að frjálsum samnings- og verkfallsrétti verkalýðs og launamanna úr öllum áttum. "Kjarasáttmála"-hugmyndin er liður í herferðinni gegn grundvallarréttindum verkalýðsins. Henni ber að hafna.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ
ÖREIGAR ALLRA LANDA OG KÚGAÐAR ÞJÓÐIR SAMEINIST!

Málgagn EIK(m-l)
Gerist áskrifendur
Áskrift greiðist á gíró 12200-9

ÁBYRGÐARMAÐUR : ALBERT EINARSSON
1 árs áskrift: kr. 2500
1/2 árs áskrift: kr. 1500
Til útlanda: kr. 4000
Stuðningsáskrift: kr. 5000
ÓÐINSGÖTU 30, Posthólf 5186,
Reykjavík, sími: 29212



## Í tilefni útfarar Alþýðublaðsins:

# „Og þá trylltist Gvendur Jaki"

## -rætt við Atla Rúnar Halldórsson

"Það væri þá helst til þess að auglýsa eftir nýrri vinnu"! svaraði Atli Rúnar Halldórsson þegar Verkalýðsblaðið hafði samband við hann og bað hann að segja nokkur orð í tilefni útfarar Alþýðublaðsins. Atli Rúnar hefur unnið á Alþýðublaðinu í undanfarin tæp tvö ár, en hætti nú um mánaðarmótin júní/júlí ásamt öðru starfsfólki blaðsins. Mun blaðið ekki koma út í júlí, en óvíst er um framhaldið.

"Annað hvort reyna þeir að gefa út vikublað, eða þá að þingflokkurinn fer bara að dæmi Vilmundar og fær inni með "kjallara" í Dagblaðinu af og til. Það er náttúrulega ódýrara og að því er virðist mun áhrifaríkara! Einn möguleiki er líka sá, að þeir geti brúkað aukinn þingstyrk til að opna á ný fyrir skandinavískar pappírsflóðgáttir og gefið út dagblað áfram. Mér finnst bara andskoti lítill mórall fyrir eigin blaðaútgáfu hjá krötunum sjálfum, fyrst og fremst nokkrum toppmönnum. Ég man eftir því að á ferð um Norðurland í vetur hitti ég bæjarstjórnarfulltrúa krata á staðnum og hann spurði mig að fyrra bragði hvar ég ynni(!). Ég var dálítið hissa og sagði manninum það og þá svaraði hann jafnvel enn meira hissa: "Nú, kemur það reglulega út?". Nú svo þótti mér ekki lítið fyndið að verða vitni að því þegar Eiður Guðnason, nýbakaður þingseti krata, rölti við á blaðinu í apríl 1978 og gerðist áskrifandi að "málgagninu sínu". Ekki seinna vænna fyrir blessaðann mannin!



Atli Rúnar Halldórsson, fyrrum blaðamaður hjá Alþýðublaðinu.

"Annars finnst mér ég hafa lært heil ósköp í blaðamennskunni, þó ferillinn sé skammur. Menn kynnast ótal hliðum á þjóðlífinu og verða að setja sig inn í ólíklegustu hluti á skömmum tíma. Ætli maður búi ekki að þessu a.m.k. næstu árin".

**Er eitthvað minnistæðara en annað af því sem fyrir hefur borið í starfinu?**

"Ætli það væri ekki full langur lestur að ætla að telja upp allt það sem minnistæðast er, bæði illt og gott. En ég held að eitt af því sem mér þótti hvað merkilegast að kynnast sé vinnubrögð margra forystumanna verkalýðshreyfingarinnar bak við tjöldin. Það sem ég hef sjálfur séð er svo sem ekki margt, en meira en nóg. Þeir njóta þess ennþá verkalýðspáfarnir að engin stór blöð eru til sem hafa bolmagn til að standa upp í hárinu á þeim og fletta ofan af starfsháttum þeirra. Verkalýðsforystan mun ekki sitja á friðarstóli þegar Verkalýðsblaðið verður stærra og útbreiddara! Við blaðamenn á Alþýðublaðinu höfðum stundum spurnir af baráttu verkafólks á einstaka vinnustöðum, oftast í Reykjavík og Kópavogi. Við hringdum þá gjarnan í forystumenn Dagsbrúnar og Framsóknar til að heyra hvað þeir ætluðu að gera í málinu, en venjulega var svarið það að "málið væri svo viðkvæmt", þetta væri á "samningsstigi" o.s.frv. Ef við létum okkur ekki og sögðumst samt ætla að skrifa um viðkomandi mál, þá var farið að röfla og jafnvel að hafa í hótunum. Ég man í fljótu bragði eftir þremur dæmum um þetta. Eitt varðaði verkamenn, að mig minnir hjá Eimskip. Eðvarð Sigurðsson var bálvondur yfir að um þetta mál var skrifað. Annað varðaði ræstingarkonur hjá Reykjavíkurborg. Þórunn Valdimarsdóttir formaður Framsóknar var ófáanleg til að segja orð og taldi fráleitt að skrifa um það – af því að það kom atvinnurekandanum illa og gat afhjúpað hennar eigin aumingjaskap. Svo er það hann

framhald á bls.7.

# Keflavíkurganga 1978

Laugardaginn 10. júní s.l. var farin Keflavíkurganga á vegum Samtaka herstöðvaandstæðinga. Með göngunni vildu herstöðvaandstæðingar leggja áherslu á kröfurnar: Ísland úr NATO – Herinn burt.

Um það bil 600 manns lögðu af stað frá hliðum Keflavíkuflugvallar um morguninn en síðan fjölgaði í hópnum, einkum er gangan nálgaðist Reykjavík. Lauk göngunni með fjölmennum útifundi á Lækjatorgi seint um kvöldið.

EIK(m-l) og Verkalýðsblaðið sendu göngunni kveðju, sem lesin var upp á útifundinum. Kveðjan hljómaði þannig: "Sendum baráttukveðjur með hvatningu um fjöldabaráttu gegn báðum risaveldunum. Ísland úr NATO – Herinn burt. EIK(m-l) og Verkalýðsblaðið."

**SUNDRUNGARSTARF ENDURSKOÐUNARSINNA.**

Í heild má segja að Keflavíkurgangan hafi verið vel heppnuð og jákvætt skref í baráttu SHA. Hinu ber ekki að leyna að nokkuð tómahljóð var í ræðum og öðru menningarefni í göngunni, þar sem ekkert var minnst á hættuna sem okkur stafar af heimsvaldastefnu Sovétríkjanna. Þar voru þó tvær undantekningar þar sem var ræða Sigurðar Jóns Ólafssonar í Hafnarfirði og framlag Nafnlausa sönghópsins í Kópavogi.

Að venju reyndu félagar Fylkingarinnar að nota gönguna til að vekja athygli á sjálfum sér. Í þetta skiptið þorðu þeir þó ekki að mæta með fána 4. Alþjóðasambandsins sem þeir hafa þó oft flaggað áður í aðgerðum SHA. Ástæðan fyrir þeirri hæversku er sennilega hin megna andstaða sem slíkar einkasýningar þeirra hafa mætt meðal almennra herstöðvaandstæðinga. Trotskíistar reyndu hins vegar allt sem þeir gátu til að sundra samstöðunni í göngunni, m.a. með því að hrópa vígorð sem ekki samræmast grundvelli SHA. Í stað þess að halda sér við baráttu herstöðvaandstæðinga, þ.e. baráttuna gegn allri heimsvaldastefnu, reyndu trotskíistar að "gera gönguna rauðari" með því að þruma í gjallarhorn "verkalýðsvald gegn auðvaldi" og annað í þeim dúr. Þeirfengu þó lítinn hljómgrunn hjá göngumönnum enda eru flestir herstöðvaandstæðingar orðnir langþreyttir á einkabrölti trotta.

**GANGA ALÞÝÐUBANDALAGSINS?**

Alþýðubandalagið beitti ýmsum aðferðum til að eigna sér aðgerðir herstöðvaandstæðinga, setja "Alþýðubandalagsstimpil" á gönguna í því skyni að nota hana sér til framdráttar í kosningabaráttunni.

Fyrir Keflavíkurgönguna voru auglýstir símar þar sem fólk gat skráð sig til þátttöku. Einhver undarleg tilviljun olli því að símanúmerin voru þau sömu og hjá kosningaskrifstofu Alþýðubandalagsins við Grensásveg. Þar sem ekki var langt um liðið síðan símanúmerin voru birt í Þjóðviljanum vegna borgarstjórnakosninganna hefði ekki verið fjarri lagi að álykta að Keflavíkurgangan væri á vegum Alþýðubandalagsins.

Í öllum skrifum sínum um gönguna og aðgerðir SHA hefur Alþýðubandalagið einnig reynt að gera hlut sinn og sinna þingmannsefna sem mestan, og óspart bent á, að með því að kjósa rétt geti herstöðvaandstæðingar stuðlað að brottför hersins.

**ÞINGRÆÐISBLEKKINGIN.**

EIK(m-l) hafa áður bent á þá hættu að aðgerðirnar nú yrðu fyrst og fremst notaðar til kosningaáróðurs og því talið rangt að tengja aðgerðir SHA sérstaklega kosningunum Reynslan hefur sýnt okkur að þetta mat var rétt. Tímasetning aðgerðanna gaf t.d. Alþýðubandalaginu tækifæri til að hamra rækilega á þeirri stefnu sinni að þingræðisleiðin sé vænleg til sigurs í herstöðvamálinu og að öllu sé borgið ef aðeins er merkt rétt við á kjördag.

Sá blekkinaráróður gengur þó ekki öllu lengur í herstöðvaandstöðinga. Tvær "vinstri-stjórnir" hafa sýnt okkur fram á það, að ekki stoðar að treysta á flokka sem hafa það á stefnuskrá sinni að reka herinn, það er ekki nóg að slíkir menn nái meirihluta á Alþingi til þess að sigrar vinnist. Eina færa leiðin til að ná því markmiði að herinn fari af landi brott og Ísland segi upp aðild sinni að NATO er leið fjöldabaráttunnar. Sú barátta verður að vera háð gegn báðum risaveldunum, Bandaríkjunum og Sovétríkjunum, en getur aldrei byggst á stuðning við annað risaveldið eins og ýmsir endurskoðunarsinnar halda fram. Kröfur okkar eru því:

- Gegn báðum risaveldunum Sovétríkjunum og Bandaríkjunum
- Ísland úr NATO – Herinn burt.



# Nýsköpun eða minnihlutastjórn?

Erfitt er að spá nokkuð í myndun ríkisstjórnar nú. Líklegustu möguleikarnir virðast þó af yfirlýsingum þingmanna vera annars vegar "nýsköpunarstjórn" með þátttöku Sjálfstæðisflokks, Alþýðuflokks og Alþýðubandalags, – hins vegar minnihlutastjórn Alþýðuflokks og Alþýðubandalags með hlutleysisstuðningi Framsóknar. Hið fyrra virðist vera vilji margra Alþýðuflokksmanna, þannig kæmust þeir á ný í langþráð faðmlög við íhaldið, án þess að eiga von á að tapa aftur öllu sínu fylgi til Alþýðubandalags.

Síðari kosturinn virðist vera vilji Framsóknar, sem þar með mundi halda áfram að hafa sterk tök á þingi, án þess að þurfa að taka á sig neina ábyrgð.

Alþýðubandalag virðist – amk. í bráðina – helst kjósa nýja "vinstri"-stjórn, undir eigin forystu en með þátttöku Framsóknar og krata. Sá möguleiki virðist ekki vera í augsýn svo að nú fær Alþýðubandalagið að brjóta sinn endurskoðunarsinnaða heila um hvort hinna tveggja fyrrnefndu kosta sé vænlegri. Því að ljóst er að Alþýðubandalagið er tilbúið til næstum því hvers sem er, ef það aðeins fær að sitja í ríkisstjórn

Enginn þeirra kosta sem hér að ofan eru nefndir er góður, og enginn þeirra er betri en annar fyrir alþýðufólk þessa lands. Það mun koma í ljós þegar líða tekur á kjörtímabílið.

# 17.305 hunsuðu öll framboðin

Í tilefni þess að EIK(m-l) og Verkalýðsblaðið hvöttu fólk til að hunsa öll framboðin til Alþingiskosninganna og skoruðu á fólk að skila auðu, er ekki úr vegi að líta aðeins á árangurinn. Samtals skiluðu auðu á öllu landinu 1852. Þeir skiptast þannig á kjördæmin:

| | | |
|---|---|---|
| Reykjavík | 636 | - 1.1 % |
| Reykjanes | 308 | - 1.1 % |
| Vesturland | 148 | - 1.7 % |
| Vestfirðir | 96 | - 1.6 % |
| Norð. vestra | 90 | - 1.4 % |
| Norð.eystra | 240 | - 1.6 % |
| Austurland | 118 | - 1.7 % |
| Suðurland | 216 | - 1.8 % |
| SAMT. | 1.852 | - 1.52 % |

Þessar tölur munu vera ámóta og áður. Þó er sums staðar um aukningu að ræða t.d. í Reykjavík, en þar nemur aukning auðra seðla um o.4 % greiddra atkvæða. Ekki ætlum við okkur þá dul að reyna að spá í hversu margir skiluðu auðu vegna áskorana EIK(m-l) , en ekki er fráleitt að reikna með að við eigum þar einhvern hlut, a.m.k. á þeim stöðum, þar sem aðstaða okkar til dreifingar áróðurs er best, s.s. í Reykjavík, á Norðurlandi eystra, Vestfjörðum, Reykjanesi og á Suðurlandi. Ljóst er að þeir sem skiluðu auðu, tóku afstöðu – nefnilega gegn öllum þeim flokkum, sem buðu fram.

Ógildir seðlar á öllu landinu voru 292 eða um o.24 % greiddra atkvæða. Einhver hluti þeirra er vafalaust ógildur vegna slysni þeirra sem kusu eða vanþekkingar, en flest munu ógild atkvæði vera meðvituð eyðilegging á atkvæðaseðlinum og þar með afstaða gegn öllum framboðum.

Þeir sem heima sátu voru samtals 15.161 eða um 12.3 % þeirra sem eru á kjörskrá. Mikill hluti þeirra sem sátu heima gerði það vegna meðvitaðrar vantrúar á alla sem buðu fram, og tóku þar með afstöðu gegn þeim án þess að láta það skýrt í ljós. Hversu stór sá hluti er af þeim sem ekki greiddu atkvæði er engin leið að spá.

Samtals voru því 17.305 sem ekki ljáðu neinum lista atkvæði sitt. Þetta er stór hluti atkvæðabærra Íslendinga, um 13 %.

**LÆRDÓMAR EIK(m-l)**

Félagar EIK(m-l) eiga eftir að ræða þessi kosningaúrslit innan sinna vébanda og meta árangurinn af þátttöku sinni í þeim með því að skora á fólk að skila auðu. Því má slá föstu að við komumst langt út fyrir raðir okkar með áróðurinn og vöktum athygli mjög margra á því hve vinnandi fólk hefur lítið gagn af borgaralegu þingræði. Enn fleiri munu sannfærast um réttmæti þess sem við segjum, þegar líða tekur á þetta kjörtímabil, og "verkalýðsflokkarnir" fara að sýna sitt rétta eðli. Félagar EIK(m-l) hafa unnið mikið starf og leyst það vel af hendi. Þeir hafa lært mikið af þessari kosningaþátttöku, m.a. um þingræðið og baráttuaðferðir í kosningastarfi. Sú reynsla er dýrmæt og mun koma íslenskum verkalýð að gagni síðar.